Þess íslendska evangeliska
Smábóka Félags rit No. 36.

# 4da Hugleiding,

yfir það þridja Atridi Augsborgisku Trúarjátníngarinnar um

# Guds Son.

Framveigis kénna (vorir Safnadir), ad Ordid, það er Sonur Guds, hafi í kvidi sællrar Maríu Meyar tekid á sig manndómliga Náttúru; svo ad þær tvær Náttúrur, Guddómlig og manndómlig, óadskilianliga samteingdar í einíngu Persónunnar, séu einn Christur, sem er sannarliga Gud og sannarliga Madur, fæddur af Mey Maríu; hver ed sannarliga hafi píníst og verid krossfestur, hafi dáid og verid grafinn, svo ad hann (med því móti) gjæti sætt aptur Fódurinn vid oss, og verid Fridþægingar-Offur, ecki einúngis fyrir Upprunasyndina, heldur einnig fyrir allar mannanna gjøranligu syndir. Sá sami (Guds

sonur) sté nidur til Helvítis, og er sannarliga Upprisinn á þridja deigi; þar eptir sté hann upp til Himna, svo ad hann sitji til hægri handar Fødur sins, og æfinliga ríki og drottni yfir øllum Sképnum; ad hann helgi þá, sem á hann trúa, med því ad senda í hjørtu þeirra heilagan Anda, sem skuli stjórna þeim, hugga og lífga þá og vernda gégn Djøflinum og ofbeldi syndarinnar; sami Christur mun (og svo) opinberliga apturkoma, til þess ad dæma lifendur og dauda og svo framveigis, eptir sem hin postulliga Trúarjátníng kénnir.

Pad er náttúrlig samhljódan, ad þegar búid er ad tala um uppruna syndarinnar, sé strags á eptir talad um uppruna nádarinnar. Á hvørju liggur þeim sjúka meira enn á lækníngu, þeim fángada á frelsi, og daudaseka á lífsgjøf? Svo sem þá, í því nærstundangéngna atridi, var talad um vora fordæmíngarverdu náttúruspillíngu, *) svo er í því dyrmæta atridi,

---

*) Sterk roksemd, auk ádurtalinna: ad syndsamligar tilhneigíngar i oss ecki séu af Gudi, eru ord Postulans Joh.

er nû skal umhöndla, talad um þann „af hvørs fyllingu vêr þegid höfum Nád fyrir Nád," nefniliga: „um Guds Son Jesúm Christ, sem oss er af Gudi giørdur til visdóms, réttlætis, helgunar og endurlausnar." Eckert atridi vorra evangelisku trúarbragda er glediligra enn þetta, og eckert á sinn hátt naudsynligra. Allir vér, øll Adams børn, erum fordæmingar sekir syndarar fyrir Gudi; fyrst af náttúrunni til, sem ádur er syndt, þarnæst fyrir misbrúkun vors frívilja og vondan verknad; og hér kunni einginn ødrum ad hjálpa; allir vóru af náttúrunni jafn-ólucknligir. En Gud syndi sína yfirvættis miskun á oss, þegar vér vórum hans óvinir, og „sendi sinn eingétin son, til þess ad allir þeir sem á hann trúa, ecki



---

1 pist. 2, 16. hvar hann neitar berliga: Ad Fysn holdsins sé af Fødurnum. Líka svo forbod Guds í þvi tíunda bodordi: Þú skalt ecki girnast; þvi hvernig kynni Gud ad forbjóda þá girnd, sem hann hefdi siálfur, med tilhneigíngunni, innplantad? Hvernig kynni hann annars heiminn ad dæma? Rom. 3, 6.

skuli fyrir farast, heldur hafa eylîft lîf."

Ó, hvørsu rídur oss þá á, ad þeckja réttiliga, þessa guddómligu persónu Jesúm Christ, er vér eigum á ad trúa oss til sáluhjálpar, þvî „Þad er eylîft lîf" seigir hann siálfur: „ad vér þeckjum (ecki einúngis) Födurinn, alleina sannan Gud, heldur og þann, hann sendi, Jesúm Christ." (Joh. 17, 3). Grundvøllur þessarar þeckingar legst þá fyrst, med lærdóminum um Þrenninguna i þeim eina Guddómi, sem ádur er syndt, hvør lîkliga hefdi oss aldrei opinberadur verid ella. Þvî þad sama, sem i Guddóminum nefnist Sonur, er vor Jesús, î uppátekinni manndómligri náttúru. Þad synir Jóhannes Jesú postuli, med berum og ótvîrædum ordum î inngángi sîns Gudspialls, þar hann seigir: „ad Ordid, þad î upphafi (edur frá eylîfd), var hjá Gudi, og var siálfur Gud, fyrir hvørs krapt ad allir hlutir eru tilordnir, þad sama hafi ordid Manneskja og umgeingist medal manna". Þessi sama persóna, seigir hann „hafi verid hinn eingétni Sonur Guds Födurs; hvørs Guddóms-dyrd, auglyst háfi sig hans postulum og ødrum (til fullra roksemda um ad syna hvør hann væri); já, ad þessi sami, midt i þvî hann

sem madur umgéckst medal manna á jördunni, hafi þó verid „ í Födursins Skauti," sem ei gétur annad þýdt, enn sameiníngu hans Guddómligrar veru med Gudi Födur; þetta má lesa hjá Joh. i 1ta Cap. í því 1ta, 2ru og 18da versi. Sami Postuli nefnir Jesúm og svo í sendibréfi sínu: „sannan Gud og eylíft Líf," (1 Joh. 5, 20), hvar med hann synist hafa tillit til sjálfs Jesú ádur áminstu orda, í bæninni til síns himneska Födurs: „Pad er eylíft líf, ad þeir þecki alleina sannan Gud (ad vera), og þann, þú sendir, Jesúm Christ;" svo sem Jesús skyldi sagt hafa: þad er vegurinn til ad ødlast eylífa sælu, ad menn þeckji þig, minn Fádir, og mig Jesúm Messiam, sem þú sendir, ad vera einúngis sannan Gud. Nú þó adra rod meigi og svo í þessum Ordum finna, er þessi þó einganveiginn ósáttúrlig, né ósamhljóda meiníngu orda Frelsarans, í somu bæn sídar; því í 10da versi tilleggur hann sér somu eignarrád allra hluta, sem Födurnum, seigjandi: „Alt hvad mitt er, þad er þitt, og hvad þitt er, þad er mitt," sem ei kunni fortáksláust seigjast, nema hann jafn væri födurnum og samrar veru; hvad hann og þar á eptir synist berliga vitna, ad sé, med þessum ordum: „Þú Fadir ert í mér, og eg í þér."

Eins háleit ord um sjálfan sig brúkadi Jes-

ûs í bæn þeirri, sem Matthæus (11, 27) framsetur eptir honum, seigjandi: „e i n g i n n þ e c k-i r S o n i n n, n e m a F a d i r i n n, o g e i n g-i n n þ e c k i r F ø d u r i n n, n e m a S o n u r-i n n;" hvar af flytur: ad, svo sem einginn þeckir Gud svo sem hann er, nema Gud sjálfur, svo hlytur þá Sonurinn Gud ad vera, fyrst hann alleinn, og einginn annar, þeckir Fodurinn, og Fadirinn alleinn, og einginn annar, þeckir Soninn; svo hin sama óendanliga vitska, sem einginn hefir, nema Gud einn, þarf til ad þeckja báda. Svo syniſt og Matthæus 22, 42, hvar hann seigir frá tali Jesú vid Pharisæana út af persónu Messiæ, med útleggíngu sinni á þessum Davíds ordum Ps. 110, „D r o t t i n n s a g d i m í n u m D r o t t n i" berliga benda til Jesú Guddóms; þvi þar sem í hofudtextanum stendur: „Jehóva sagdi mínum Drottni," hefir Gudspjallamadurinn af heil: drift, útþydt hvorutveggja med sama ordi, til ad syna, ad sama vera og sami guddómur meintist bædi fyrr og sídar *).

*) Hvorsu þetta Ord Drottinn (kyrios á grísku) hafi, medal hinna fyrstu Christnu, stakliga tileinkad verid Gudi einum, synir ljóst pístarvættis saga þess helga Polycarpi, sem fyrri lét líf sitt, undir mestu píntingum, enn af honum feingist, ad tilleggja titil þennan Keisaranum.

Í útskíríngunni yfir þrenningar-lærdóminn var syndt, hvorsu ad Páll Róm. 9, 5 nefnir Jesúm afdráttarlaust: „Gud yfir ollum hlutum, blessadan ad eylífu," hvar hann tilleggur honum bædi nafn Guds og eiginligleika; því hvør rædur yfir ollum hlutum, nema Gud einn?

Líka kallar hann 1 Tim. 3, 16 þad „miklvægan gudhrædslu-leyndardóm, ad Gud, (nefniliga Jesús Christúr) augl ystist i holdinu;" og þó sumir seigi, ad þessu ordi Gud, sé hér innskotid, synir samheingid þad mestu ólíkindi; því leyndardómur kunni þad ecki heita, þó Jesús sem Manneskja af Manneskju fæddist, nema hann undir eins Gud væri.

Eins synist sami Postuli í pistlinum til Títum 2, 13: kalla Jesúm Christ: „þann mikla Gud og vorn Endurlausnara."

Nú er því ecki ad neita, ad mótstødumenn Christs Guddóms, snúa ymisliga út úr þessum ordum Ritníngarinnar, en flestum þeirra, med bersyniligri þvíngun; standa og svo á því: ad Jesús hafi sig sjálfur aldrei Gud kallad. Þó madur vildi nú láta svo vera, og ecki skilja ord hans Joh. 17, 3 á þann hátt, sem ádur er sagt, þá sannar þad samt minna enn eckert móti Jesú Guddómi. Því: fyrst var Jesús aldrei ad þeirri spurníngu spurdur: ertú Gud? og

gafst því aldrei orsök uppá hana að svara; en síður hans var, að láta menn framar sannfærast af verkum og rökseindum, enn af tómum orðum. Svoleiðis þegar Jóhannes sendi til hans úr fángelsinu, og lét spyria hann: hvert hann væri sá væntanligi Messías eður ei? svaraði hann ecki beint: eg er Messías; heldur vísaði til verka sinna og spádómanna um sig, af hveriam menn álykta kynnu, hver hann væri. Þar næst var nafnið Guð svò tvírædt hjá Gyðíngum, að þó Jesús sagt hefði: eg er Guð, en færra af ødru fært til røksemda, vóru menn að litlu nær; hvað nafn þetta tvírædt var, sjáum vér af sjálfs Jesú orðum Joh. 10, 34; og sannliga hefði hønum fyrir það ei verið betur trúað. Í þriðja máta sannaði Jesús meira með því, að tileinka sér svo opt guddómliga eiginligleika, enn þó hann hefði tillagt sér nafnið eintómt; hvað og Gyðíngum sjálfum fanst (Jóh. 10, 33) þegar þeir søgðu: að hann, sem væri maður, gjørði sig sjálfan að Guði; af því hann hafði sagt: að hann og Faðirinn væru eitt, og að hann gjæfi eylíft líf þeim sem sér hlyddu. Jesús bar ecki heldur, né gat borið, þá søk af sér, heldur sannaði, að hann hefði þar til gildar ástæður. Í fiórða máta viðurkéndi Jesús bæði heimugliga (Matth. 16, 16. Joh. 11, 25—27) og opinberliga fyrir høfuðprestinum (Matth.

26, 64) ad hann væri Guds Sonur, og þad í þeirri háleitu merkíngu, sem Gydíngar tóku þad, nefniliga ad vera guddómlig persóna, þar hann tillagdi sér þá hátign: ad sitja til hægri handar Guds kraptar, sem Gydíngum þóktu svo miklar øfgar, eins og hann, sem satt var, segdi sig Gudi jafnan; hvørsvegna dómur sá var réttur, ad Jesús væri sekur um gudlastan, ef hann ecki var þad hann sagdist vera. Já yfir høfud ad seigja, tillagdi Jesús sér ecki einn, heldur alla guddómliga eiginligleika; hann tillagdi sér eylifd (Joh. 8, 58. 17, 5. 24) þar hann sagdist hafa verid í dyrd hjá Fødurnum, ádur enn grundvøllur veraldarinnar lagdur var; því svo plagar Ritníngin ad tala um Guddómsins upphafslausu eylífd (siá Ps. 90, 2). Almætti (Joh. 5, 21), þar hann qvedst, eins og Fadirinn géfa lífid, hvørjum sem hann vilji. Alvitsku (Joh. 10 15), þar hann játar sig þeckja Gud Fødur, eins og Gud Fadir þecki sig. Alstadarnálægd (Joh. 3, 13), þar hann seigir ad mannsins Sonur, sem af himnum fór, se samt á himni. Alstjórn allra hluta (Matth. 28, 18); þar hann seigist alt vald hafa, bædi á himni og jordu. Makt ad fyrirgéfa syndir (Matth. 9, 6), hvør Guddómsins einkaréttur hann, med breytni sinni

og tali vid þann limafallssjúka, sannadi ad sér tilheyrdi. Vald ad géfa eylíft líf (Joh. 10, 28), þar hann sagdist géfa þad saudum sínum, og hét, ad einginn skyldi þá úr sinni hendi slíta.

Myndugleika til ad dæma heiminn (Joh. 5, 22), þvi hann seigir: ad Gud Fadir dæmi eingan, þar hann feingid hafi Syninum alla dóms-makt. Og loksins tilleggur hann sér guddómligrar dyrdkunar-rétt (Joh. 5, 23), þar hann seigir, ad allir eigi eins ad heidra Soninn sem Fødurinn, þar hann hafdi þó ádur sagt, ad réttur sá heyrdi eingum til, nema Gudi einum (Matth. 4, 10). Og margt fleira þessu líkt taladi Jesús um sjálfan sig; en ad hann mætti svoleidis tala, sannadi hann med sínum kraptaverkum.

Nú seigjum vér, ad þessir og adrir vitnisburdir Jesú um sína persónu, vitnudu, ad samfarandi hans jardteiknum, lángtum sterkara um hans Gud dóm, en þótt hann sagt hefdi beint fram: Ég er Gud, en látid sumt ógjørdt og ótalad af hinu. Eiginligleikar syna lángt betur hvílíkur einn hlutur sé, enn nafnid tómt.

Mótmælendur færa þad framm hér á móti, ad Jesus hafi þó stundum talad um sig, sem hann væri Gudi sínum Fødur undirgéfinn

(Joh. 8, 28. 5, 19. 30), já, ad hann hafi med berum ordum sagt: ad Fadirinn væri sér meiri (Joh. 14, 28). En ollum þeim sem trúa, ad Jesús var bædi Gud og Madur, verda þessi Ord hans mikid audskilin; þar hann þá taladi um sig í tilliti síunar manndómligu náttúru, eptir hvørrar uppruna hann sannliga var Fodurnum minni. Þessvegna ef vér ecki viljum láta Jesúm talad hafa opinberustu mótsagnir gégn sjálfum sér, og jafnvel Gudlast, eins og Gydíngar sogdu, hljótum vér ad trúa því, ad hann bædi var Gud og Madur í einni persónu; svo þeir sem odru trúa, en seigja hann hafi þó verid hinn vitrasti og besti, fara med fjarmæli. Þegar Jesús taladi einskostar um manndóm sinn, taladi hann ecki ad eins um sig sem Gudi minni, heldur vildi hann jafnvel ecki gódur heita, sem vér sjáum af svari hans vid þann, sem kalladi hann góda meistara (Matth. 19, 17); aptur á móti, þegar hann taladi um sína heilu persónu, nefndi hann sig sjálfur Gódan; svo sem þegar hann sagdi: eg em gódur hyrdir (Joh. 10, 11. 14). Þannig hagadi Jesús opt, eptir kríngumstædunum, tali sínu. Þessa gétur einginn med gildum ástædum þrætt.

Tvennslags eru nú þeir, sem neita Christs Guddómi:

Adrir seigja, hann hafi ad vísu ad eins

einfaldur madur verid, en þó útbúinn af Gudi med stakligum gáfum og krapti; en adrir játa, ad hann ad sonnu hafi meira enn Manneskja verid, og láta sem Guds Sonur sá, edur Ordid, sem á sig tók Manndóm, hafi þó ecki verid Gud sjálfur, heldur sú ædsta af ollum skèpnum Guds, sem hann skapad hafi fyrr enn allar adrar. Og til þessa vilja þeir líkur draga, af því ad hann í Ritníngunni nefnist Sonur Guds, Frumburdur skèpnanna; líka af því sagt sé, ad fyrir hann, en ecki af honum sé alt skapad, og ad Sonurinn muni loksins undirleggjast Fodurnum. En þessi orda-tiltæki seigja allt annad, enn þeir vilja; því.

Fyrst: hvad nafnid Guds Sonur snertir, þá kallast Christur þad med þessum þýdíngarfullu tillagsordum eingetinn (Joh. 1, 19. 3, 16. 18) og eiginligur (Joh. 5, 18. Róm. 8, 32). Hvor ord til baka reka aldeilis þá ímyndun, ad Sonurinn skapadur sé, því gétinn og skapadur er sitt hvad; eins þá, ad hann sé ósta sonur Guds, sem hinir trúudu, edur og sonur í figúru-merkíngu, því slíka Syni hefir Gud ótal. Þvert á móti syna þau, ad Christur er samrar veru og Fadirinn, eins og vera foreldranna meddeilist bornunum vid gétnadinn, og því kallast hann Guds eiginligur edur náttúrligur Sonur.

Í annan máta, hvad því vidvíkur, ad

Jesús kallast (Col. 1, 15): Frumburdur allra sképna; þá, fyrir utan þad sem þetta ord í høfud-textanum gétur eins vel útlagst Frumfadir allra Sképna (sem þá væri óhrekjanligt vitni um Christs Gudd'm), þó madur láti þá vanaligu útleggíngu halda sér, sýnir ordid fyrst: ad hann ecki nefnist Sonur fyrir þad hann skapadur sé, heldur gétinn af Gudi, sem er sitt hvad, og ádur er sagt, og þar nærst ad sá gétnadur sé frá eylífu. Því þar Sonurinn adgreinist frá øllum Sképnum, hvorjar sagt er hann allar skapad hafi, þá hlýtur hann siálfur ad vera til frá eylífu, því sú upphafslausa eylífd Fødursins útmálast med líkum ordum (Ebr. 1, 8 op. 1, 8. 11. Ps. 90, 2). Þar ad auki kallast Sonurinn hjá Esajam 9, 6. Fadir eylífdarinnar, og hjá Mickeam 5, 1 er sagt: ad hans útgángur sé frá eylífu.

Í Þridja lagi hvad þad snertir, ad sagt er, ad fyrir Soninn, en ecki af Syninum seú allir hlutir skapadir (eins og Gud stýldi hafa brúkad hann í sinn stad til ad skapa), þá fellur øll sú innbirlíng um koll, þá athugast: ad ordid fyrir brúkast og svo um sjálfan Fødurinn (Rom. 11, 36. Ebr. 2, 10); líka svo tille gst Syninum beint fram Skøpunarverkid, í pistl. til Ebr. 1, 10. Sama er í fiórda máta ad seigja um ord Postulans Páls (1 Cor. 15, 28) ad Sonurinn muni undirlegg-

jast Födurnum, svo Guð sé alt í öllum; þá er aðskilið að frá 24 til 28 vers. talar Postúlinn um Guðs Sonar messíaniska ríki, í hvörju hann stjórnar ei alleina sem Guð, heldur sem Guð og Maður, en hefir þó, eptir sinni manndómligu náttúru, þeigið þá makt og tign af Guðdóminum; en nær stjórn sú er fullkomnuð, og hans messíaniska ríkis augnamið uppfyllt, er sem hann afleggi sitt messíaniska embætti, er Fadirinn hönum sem Manni og Guði á hendur fól, og skili Guðdóminum í Födurnum og sjálfum sér allri þeirri stjórn; þar hann að manndóminum til er Födurnum minni, og þar á ofan er uppsprettа Guðdómsins í Födurnum, en ekki í Syninum, þó veran sé ein og hin sama. Svo orð þessi skérða þa alls ekki Jesú guðdómligu hátign í sjálfu sér, heldur benda að eins til innvortis uppruna náttúranna í Messíæ persónu, og Guðdómsins í Födur og Syni.

Nockrir látast og svo taka það til greina, að ekki séu bænir í Nya Testamentinu stíladar til Sonarins, heldur Födursins. En það er á eingum rökum bygt; því fyrir utan það, sem Jesús, á sinum holds = vistardögum, tók í raun og veru móti guðdómligri tilbeiðslu og þackläti af mönnum, til dæmis: af kanversku kvinnunni (Matth. 15, 25); af þeim sem blindur var borinn (Joh. 9, 38); og af þeim Samversku sem læknaður var (Luc. 17, 16), sem eingir Guðs-

menn og ecki Einglar vildu móti taka; kéndi og sjálfur, ad Soninn ætti einsad dyrdka sem Fødurinn (Joh. 5, 23), enda þó hann hefdi ádur sagt, ad Gud alleinn ætti ad tilbidjast (Matth. 4, 10); fyrir utan þetta, seigi eg, finna menn í morgum stødum Nya Testamentisins, óskir framsettar til Jesú, allteins og til Fødursins, og þad eingu sjaldnar.

Oskar ecki postulinn Páll, í inngángi allra pistla sinna, blessunar sofnudunum, sóovel af Jesú Christi, sem Fødurnum, og endar þá alla med ósk um nád Frelsarans sér í lagi? Er þad ecki audsjed, ad Páll stíllad hefir bæn sína einkum til Jesú, þegar hann (2 Cor. 12, 8. 9) bad ad Satans Eingill mætti frá sér víkja? Bad ecki Stephanus Jesúm á daudastundunni ad medtaka sálu sína (Post. G. bók 7, 59)? oskadi ecki Petur ad Jesús Christus læknadi Eneas (Post. G. b. 9, 34)? Tilbádu ecki lærisveinarnir Jesúm, þegar hann uppstje til himna (Luc. 24, 52)? Seigir ecki Páll, ad allir Guds-einglar eigi Soninn ad tilbidja (Ebr. 1, 6)? Já allar Sképnur á himni, jørdu og undir jørdu eigi ad lúta Jesú tign (Phil. 2. 10)? Og — sá ecki og heyrdi Jóhannes allar himnanna hirdsveitir tilbidja og lofa Lambid á hátignarfyllsta hátt (Op. 5, 12. 13)? Af øllu þessu flytur þá sú óveikjanligasta ályktan: ad sá sem á ad tilbidjast sem Gud, hlytur ad vera sannur Gud, því annars kéndi Ritn-

íngin oss afgudadyrdkun. Því setjum nú, ad Sonurinn, eptir sínni ædri náttúru, hefdi verid ad eins sú allra fullkomnasta Guds sképna, en ecki sjálfur verulígur Gud, hlaut samt á millum hans tignar og sjálfs Guds, ad vera óendanliga stórt millibil, og hann þessvegna aldeilis ecki med sonnu, edur ad saklausu, gétad tillagt sér þá titla, sem hann gjordi, er ei gátu annars enn leidt ótal Manneskjur í þá villu, ad halda hann Gudi jafnan, ef hann reyndar var þad ecki; og hvernig skyldi hann sem gódur Sidalærari, því sídur sem af Gudi sendur Spámadur — þó aldrei hefdi hann meiri verid — gjora sig ad því valdan? En þó allra ómoguligast, ad sjálfur Gud hefdi med kraptaverkum viljad sanna lærdóm þann, er honum gat svo berliga til nidrunar ordid, og ollad þess, er hann mest eyda vildi: d y r d- u n f l e i r i G u d a? En, lof sé Gudi, ad hér má fylliliga gánga úr skugga um ad Jesús Christur gjordi ecki úr tign sínni ofmikid; og ad vér, sem trúum, ad hann eptir Guddóminum ad náttúrunni til, en Manndóminum ad tileinkaninni til, jafn sé Gudi Fodur, trúum ecki ofmiklu.

Því svo sem vér vitum, ad einginn annar enn sú æ d s t a v e r a, var í Gamla Testamentinu titladur med nafninu Jehóva, og ad Gud sjálfur til kynna gaf, ad hann villdi eingum odrum enn sér, þad nafn tilleggja láta (Es. 42, 8), eingu ad sídur er þad þó fullvíst, ad skrifarar hins Nya Testamentis hafa ecki einúngis álitid Jesú

Christo tilheyra nafn þetta, heldur og, ad hann verid hafi hinn sami, sem í Gamla Testamentinu var undir því meintur. til dæmis:

Jóhannes Jesú handgeingnasti postuli álítur (Joh. 12, 41) Jesúm ad vera þann sama Jehóva, um hvorn Spámadurinn Esajas (6, 1) talar. Líka Páll (1 Cor. 10, 9) sem seigir, ad Gydíngar hafi freistad Christs, þar sem Moyses seigir (4 B. 21, 5), ad þeir hafi freistad Jehóvæ. Og svo Pétur (1 P. 2, 7. 8), sem kallar Jesúm ásteytíngar-stein, eins og Spámadurinn Esajas (8, 13. 14) seigir, ad Jehóva verdi sumum. Páll seigir (Phil. 2, 10) ad fyrir Jesú skuli öll knè sig beygja, og eins seigir Esajas (45, 21) um Jehóva. Páll hermir (1 Cor. 1, 3), ad Christur sé af Gudi gjördur oss til réttlætis, eins og hann hjá Jerem (23, 6) kallast Jehóva vort réttlæti. Já, og svo er þad eptirtektaverdt, ad sjálfur Jesús lysti sér med þessum ordum: Jeg em hann (t. d. Matth. 14, 27. Joh. 18, 5), er svo náttúrliga svara merkíngu nafnsins: Jehóva; og fyrir Sjáandanum Jóhanni nefndi hann sig: A og O, þann fyrsta og sídarsta, er sama tillit syniist hafa, sem þydíng þess heilagasta nafns: Sá sem er, sá sem var og sá sem kémur (Op. 1, 8. 11).

Nú svo er þá allt yfir höfud, nöfn, eiginligleikar og verk, sem bædi sjálfur Jesús lagdi sjálfum sér til, og svo postular hans honum, er berliga vitna um Guddóm hans persónu; og hver vill þá svo djarfur vera, ad efast um sannleika þess, er svo gott sem sjálfur Gud vitnad hefir? Og þó á öllum öldum sundist hafi þeir, er þennan háleita sannleika efad hafa; svo sem Aríus og einkum Photinus á 4du öldu, en Socínus á 16du, hefir þó villa þessi optast verid lík launsyki þeirri, er stýngur sér nidur hér og þar, uns hún, á næstlidinni 18du öldu, brautst út sem eydileggjandi drepsótt, medal þeirra er létu og láta sig þó christna kalla; svo jafnvel sjálfur Tyrkjanna trúarbragda höfundur Mahómet mun í dóminum upprísa og dæma þessa kynslód; þar hann í sínum Alcoran synist nær ótvírædt tilleggja Jesú guddómliga náttúru og hátign, nær hann lætur Eingilinn segja vid Maríu: „ad hún eigi ad fæda Ordid, sem af sjálfum Gudi útgeingid sé; hans nafn skuli verda Jesús Christur, heidrunar-verdur bædi í þessari og komandi veröldu."

En ad Jesús hafi sannarlig Manneskja verid, um það hafa færstir efast, þó nockrir hafi sér þarum óþarfar grillur gjördt. Því hvad er augljósara, enn ad sá sé sannur madur, sem alla manneskjuliga skopun og eiginligleika hefir.

Svo tileignast Jesú í Ritníngunni Sál (Matth. 26, 38); Líkami (Joh. 2, 21); Líkami og blód (Ebr. 2, 14); bein (Luc. 24, 34); hendur (Matth. 12, 49); augu (Joh. 11, 41).

Hann húngradi (Marc. 11, 12); hann þyrsti (Joh. 19, 28); hann gladdist (Luc. 10, 21); hann hrygdist (Joh. 12, 27) og svo frv.

Hann var af kvinnu fæddur, sem onnur Manneskja, þó getnadur hans væri yfirnáttúrligur, eins og Eingillinn sagdi vid Maríu: Heil. Andi mun koma yfir þig, nefniliga til ad tilreida þad efni af þínu blódi, af hvorju Jesú manndómur mindast skal; og Kraptur hins hærsta, þad er sá eyliſi Sonur Guds, mun yfirskyggja þig, þad er, sameina sig því efni, sem heil andi fráskilid og helgad befir í þinu Lífi. Svo nefnist hér þá af þessum himneska sendiboda oll heilog Guddómsins þrenning: Sá Hærsti, þad er Fadirinn; hans Kraptur, Sonurinn; og heil. Andi; hvad enn nú er ny rokſemd þessa mikla leyndardóms sannleika.

Sjá! svo er þá Jesús Christur Gud og Madur; Guds Sonur og Manneskju Sonur, Ord og Hold. J hans persónu er sameinadur Oendanligleiki og endanligleiki, Skapari og Skepna, þad hærsta og lægsta, þad

strángasta réttlæti og mesta miskun. O, þennan stóra Guðhræðslunnar Leyndardóm, inní hvørn jafnvel Einglarnir sjálsir hafa eptirlæti að skygnast, seigir Petur. (1 P. 1, 12).

Hvørsu bæri oss þá manneskjum — hvørjum til blessunar og besta hann ordinn er til og opinberaður — að dádst að honum með heil. auðmykt og lotníngu, og þacka Guði af øllu hjarta fyrir þá ómetanligu æru, að hafa sameingt sinni náttúru vora í Christo, svo hún er þá ordin lángt ædri Einglanna náttúru; og vér þannig meigum tilbiðja hana, í sameiníngu þeirrar guðdómligu, íminduuum vorum til stærsta léttirs, um það ósynilega og ógripanliga í sjálfum Guðdóminum. Hvi svo sem það er óqvæði, að íminda sér þann hreina Guðdóm undir nockurskonar líkamligri Mind, en þaunkum vorum þó svo ofurhætt við því, vegna þess manneskjuliga edlis, sem Guði tillegst opt í Ritníngunni, svo drygjum vér nú einga synd, þó vér tilbiðjum manninn Jesúm Christ, sem vorn sanna Gud, og ímindum oss hann, hvørt vér viljum í hans niðurlægíngarstandi — sem oss er skiljanligra — eður í hans upphafníngarstandi. Vanrækjum það þá ecki, gott Fólk! heldur komum dagliga fram fyrir þennan Gud og Mann, með vort bænar- þacklætis- og lofgjørdar-Offur; og vitum, að sá ædsta vera, Gud vor. himneskur Faðir, álítur

þá dyrdkun vora, sem sjálfum sér veittá, hefir aſnna gèdþeckni á henni og lætur ekki ólaunada. Vèr viljum þá bidja:

O þú ljómi Fødursins dyrdar og speigill guddómligrar veru, Herra Jesú! þú sem ert vor sanni Gud og eylîft líf, vèr þínir brædur, eptir þinni manndómligu náttúru, tilbidjum þig í audmiúkustu lotníngu, þú sem tilbedinn ert af øllum heilogum Einglum; já, vèr tilbidjum Gud í þèr. Lofadur og blessadur vertú, þú Skapari allra hluta, sem alla hluti ber med þínu kroptuga Ordi, og í hvørjum allir hlutir standast; já vèr lifum, hrærumst og erum í þèr, í þínum allstadar nærveranda og allt uppfyllanda Guddómi (Eph. 4, 10). Sèf ad vèr skynjum æru þá, sem oss er veitt í því, ad þú uppá þig tókst vorn Manndóm, og þad upphvetji oss því framar ad líkjast og þóknast þínu guddómliga rèttlæti, heilagleika og kjærleika, sem þú framar af elsku til vor liktist vors manneskjuliga edlis medskapada ófullkomleika, í þínu niduriægíngarstandi; svo vor manneskjuliga náttúra mætti á sídan fyrir þig upphefjast til allrar moguligrar hluttekuíngar þeirrar Sælu, sem þínum manndómi er sídan af Guddóminum meddeild.

þá fáum vèr fyrst þeckt þig sem þú ert, eptir sameiníngu Guddóms og Manndóms, í þinni persónu, sem oss hèr í lífi er einslags rádgáta,

og dyrkað þig þeirri dyrkun, hvörri einginn hoidligur vanst fylgir í símindaninni, eingin vanrækt í æfingunni og einginn brestur í ávöxtunum; heldur munum vér þá, Einglunum líkir, sjá þig og dyrka í himnesku ljósi eyliflíga. Unn oss þess sakir þinnar guddómligrar elsku til vor, þinna manndómligu bræðra! Amen!

# 5ta Hugleiding,

Framhald yfir sama Atridi.

Nú þar sem vér ádur hugleidt høfum, hvílík persóna ad Guds sonur sé, eptir Ritníngarinnar lærdómi, log fundid oss ad líkindum sannfærda um: ad hann Gud og Madur sé í einni persónu, nefniliga: ad sá óskapadi Guddómur Sonarins í Gudi, hafi sameinad sig skøpudum Manndómi, med fullu edli einnar Manneskju, og þessi persóna hafi byrst hér á jørdunni, og umgeingist um hríd, sem Manneskja medal Manneskja. Flytur þá hér af sú stóra spurníng: Hvørt var augnamid þessarar furdanligustu Guds rádstøfunar? Hvørt erindi átti þessi guddómliga persóna híngad á jørdina? Hví vard Gud Madur? Og hví niderlægdi þessi guddómligi Madur sig svo? Kunni ecki Gud ad hjálpa sképnum sínum, án þess ad verda ad nockru leiti sem Sképna sjálfur? Hér hlytur eitthvørt óendanliga stórt augnamid hafa verid, ef medalid var ecki ofstórt, en augnamidid oflítid, og þannig óverdugt Guds vísdómi. Já, satt er þad, mannlig skynsemi skil-

ur þad ecki, þessvegna verdur Gud ad seigja oss þad siálfur, og þad hefir hann líka gjørdt fyrir soninn, sem hann sendi á jørdina og var þó samt á himnum (Joh. 3, 13), lét verda Manneskju, en var þó sem ádur í skauti Fødursins (Joh. 1, 18). Hans vitnisburdi erum vér skyldugir ad trúa, hvørsu óskiljanligur sem oss hann þykir, því einginn þeckir Fødurinn, né Fødursins rád, nemá hann. En hvad vitnar hann þá um siálfan sig? Fyrst: seigist hann vera kóminn til ad uppfrædа heiminn med sínum lærdómi. Eg er ljós heimsins sagdi hann (Joh. 8, 12); eg er kominn til ad bera vitni um Sannleikann (Joh. 18, 37). En Jesús seigist þó vera kominn til fleira enn þessa; hann seigist og svo vera kominn til ad frelsa heiminn; því hann átti ecki einúngis ad vera ljós heimsins, hann átti og svo ad vera hans líf. Því vitnar hann, ad Fadirinn hafi af elsku til mannanna sendt sig til þess, ad þeir skyldu á sig trúa, þeim til sáluhjálpar, fyrir þad hann yrdi upphafinn, eins og Móses upphóf Eyr-orminn á eydimørku fordum (Joh. 3, 14—16). Hann seigist vera kominn til ad leggja út sitt líf til Lausnargjalds fyrir mennina (Matth. 20, 28); til ad úthella sínu blódi fyrir mennina til Synda-

fyrirgefníngar (Matth. 26, 28); til ad géfa sitt Hold fyrir Líf veraldarinnar (Joh 6, 51); ad leggja sitt Líf út fyrir Saudina (Joh. 10, 15), og mörg fleiri hans ord hnígja ad sama augnamidi. Svo er þá Jesús kominn til tvenns; til ad vera bædi Frædari og Frelsari mannanna. Þad fyrra gjørdi hann med lærdómi sínum og lifnadi; þad sídara med sinni pínu og dauda.

Þad fyrra hlaut endiliga ad gánga á undan því sídara, þó þad sídara væri adalaugnamidid. Jesús kom í heiminn sem Læknir, til ad bæta mannkyninu þá drepandi synda-syki, af hvörri þad haldid var, eptir Ritníngarinnar útmálun (Ef. 1, 5. 6). Nú svo sem læknirinn þarf fyrst, ad telja þeim sjúka trú um, ad banvæn syki í honum búi, og ad hann géti og vilji veita honum læknismedal vid henni, vilji hinn þad af sér þyggja og réttiliga brúka; eins hlaut vor Jesús ad gjöra; hann hlaut ad auglysa sig og sitt erindi fyrst, og koma þeim syndsjúku manneskjum til ad trúa, ad þeir sjúkir væru, svo þeir þyggja vildu lækníngu sína, er hann þeim med sinni pínu og dauda tilreida vildi. Ádur enn þeir trydu því fyrra, vóru þeir óhæfir ad medtaka þad sídara. En ad Jesús med lærdómi sínum einsog har hafi lækna viljad mannkynid, er eins fráleitt, eins og ef einn læknir vildi lækna daudsjúkan mann, med því ad lesa fyrir honum bestu

lifnadarreglur til ad fordast fykil; mundi hann ecki þurfa fyrst, edur undir eins, ad géfa hönum medal vid fyki sinni svo hann feingi heilbrygdi, og gjæti sídan fylgt hans heilsu-vidhaldsreglum á eptir, til ad fordast nya syki? En væri hann hreint d a u d u r, eins og Ritníngin lysir óendurfæddum manni (Eph. 2, 1. Cól. 2, 13), hvörsu enn nú fávísligri og ónáttúrligri yrdi adferd þessi? Sá daudi þyrfti fyrst ad lifna, ef þess audid væri.

Þessvegna hafa menn eingan rétt til ad skilja Jesú ádur framfærdu ord um tilgáng hans dáuda, edruvísi enn eptir bókstafnum, nefnliga: a d J e s ú h ö f u d-e r i n d i í h e i m þ e n n a n h a f i v e r i d, a d d e y a í M a n n k y n s i n s s t a d, s v o þ e i r s e m á h a n n t r y d u, g j æ t u f y r i r þ a d f e i n g i d f y r i r g é f n í n g u s y n d a s i n n a h j á G u d i. En ad þessi skilníngur þeirra réttur sé, synir þad ljósast, hvörsu Postular hans sjálfir útlögdu sídar þessi hans ord, og augnamid hans tilkomu. Eg seigi: s í d a r, því þegar Jesús taladi ord þessi, skildu þeir hann ecki rétt, og nærri hneixludust á þeim; en eptir þad heilagur A n d i hafdi, eptir Jesú lofordi, leidt þá í allan Sannleika (Joh. 16, 13), þad er: kénnt þeim ad skilja rétt augnamid Jesú tilkomu, og hans endurlausnarverks náttúru, þá hrópudu þeir í einum rómi og anda ord þessarar meiníngar: J e s ú s k o m

í heiminn til ad deya fyrir mennina, svo þeir ødlast gjætu fyrir þad, fyrirgéfningu synda sinna hjá Gudi (sjá 1 Pet. 1, 2. 18. 19. 2, 24. 3, 18. 1 Joh. 1, 7. 2, 1. 2. 3, 5. 4, 10. Opb. 5, 19). Ad eg ecki tali um postulann Pál — þann lærda og háttupplysta Pál — med hvílkri alúd leitast hann ecki vid, í sendibréfum sínum ad innræta þann lærdóm: ad Jesús dáid hafi sem forlíkunar fórn, Gudi til þocknunar, fyrir Heimsins syndir (sjá medal annara Rom. 5, 10. 11. Col. 1, 20. 22. Eph. 1, 7. 2, 16. 5, 2. Ebr. 2, 17. 7, 27. 9, 13. 14. Gal. 3, 13. 1 Cor. 15, 3. 2 Cor. 5, 18. 19. 21). Og þennan Postulanna Vitnisburd rétt sem képptist Gud vid ad stadfesta med mesku kraptaverkum, fyrir þeirra hond. Þetta samhljódadi og einmidt spádómum Gamla Testamentisins um Messíæ híngadkomu augnamid; sem lesa má med berum ordum hjá Es. (53, 5. 6. 8. 10. 11. 12); Dan. (9, 24); Hos. (1, 7 — 10) og vídar. Fyrir utan þad sem allar fórnir Gamla Testamentisins voru, eins og Páll (Ebr. 9) vitnar, Fyrirmindanir uppá Jesú fridþægjandi pínu og dauda, en ecki uppá hans sidalærdóm; er sýnir, ad þad fyrra var hid stóra adalaugnamid hans híngadkomu. Hvor þorir nú ad vera svo djarfur, ad taka øll þessi Guds-anda ord ødruvísi enn þaug tølud eru?

Hvør vill eigna Postulum Drottins annadhvørt þá heimsku, ad skilja þetta sjálfir odruvísi enn vera átti, edur — ef þeir skildu — þá ósæmandi kjænsku (eins og sumir láta á sér heyra), ad tala þannig eptir þjódar-smecknum, af því hún var svo von vid offur og fórnfæríngar; og þad þegar þeir hvad mest drifnir vóru af heil. Anda?

Ney, postuliun Páll (rétt eins og hann skyldi fyrirséd hafa þessa grunsemi á sídari tímum) fortekur aldeilis, ad hann brúki nockur brøgd edur kjænsku, til ad koma mønnum á ad trúa kénníngu sinni, heldur seigist hann tala sannleikann fyrir utan øll dulmæli (2 Cor. 4, 2 — 4). En brøgd máttu þad heita, ef hann og postularnir brúkudu nockurt lockandi ordspil, um svo hávigtugt efni, en søgdu aldrei þess eiginligu og sønnu meiníngu; og hvørnig mundi Gud vilja sanna þvílíkt óheil-smídi med kraptaverkum? Hvørsvegna menn hafa stærsta rétt til ad krefjast af þeim, sem svo annarliga útleggja postulanna ord á þessum døgum, ad þeir sanni þá útleggíngu sína med nyum kraptaverkum, þar hún ecki finst í heil. Ritníngu, heldur syníst henni gagnstæd vera. En máské sú ordrétta útlegging sé Gudi óverdug, máske hún se mønnum skadlig! Hvílík fiarmæli! Ney, hún er Gudi í mesta máta verdug; því hún hefdar Guds løgmál, heidrar hans réttlæti, og hrópar hans miskunsemi, lángt yfir hina óeiginligu útleggíngu fram. Já, hún hefdar

Guds lögmál, seigi eg; því þar sem það lýsir banni yfir alla þá sem ecki halda það (Gal. 3, 10), hvað þó eingin lifandi manneskja orkar, síðan syndaspillingin inntók mannsins edli, þá hefir Guds Sonur, sem madur, það bann á sig tekið vor vegna, svo lögmálsins hótan, þó Gud vægi oss, verdi ecki til forgéfins. Réttlæti Guds heidrar hún; því hún sýnir ad Gud sé réttlátur, og líði ecki syndina strafflaust, þó hann gjöri þann réttlátan, edur fyrirgéfi þeim, sem trúna hefir á Jesúm (Rom. 3, 26); því ad fyrirgéfa öllum óbétrmönnum strafflaust, stríðir á móti réttlætinu. Loksins hrópar útleggíng þessi Guds miskunsemi hástöfum; því fyrir það, seigir Páll, prísar Gud sinn Kjærleika við oss, ad Christúr hefir fyrir oss dáið, þá vér vorum Syndarar (Rom. 5, 8). Nú svo sem lærdómur þessi um Christs Fridþægíngu og Fórnardauda í vorn stad, er Guddóminum í mesta máta verdugur, svo er hann og manninum í mesta máta gagnligur. Ecki tala eg svo um gagnsemd hans þá, enda þó hún sé hin mikilvægasta, ad hann er undirstada réttlætíngar vorrar fyrir Gudi, heldur um það, hvörsu hann kröptugliga stýdur til vors hjartalags og lifnadar betrunar. Mótstödumenn hans seigja hann ali andvaraleysi, med traustinu á ann=

arliga forþénustu, en ei sína eigin; en þad eru stærstu ósannindi! Þar honum fylgir sá þúsundsinnum itrekadi skilmáli: ad einginn géti Jesú fridþægíngar hjá Gudi adnotid, sér til synda kvittunar, nema sa sem lætur af illu og lærir gott ad gjøra (Es. 1, 16. 17).

En þó sumir finnast kunni, sem hann misbrúka, er þad lærdóminum ei ad kénna. Menn vita og, ad madur allteins kann í oftrausti ad reida sig uppá Guds miskun, hvørt sem hann gjørir þad gégnum Jesúm, eda fyrir utan hann; því henni neita þó ecki neitendur fridþægíngarinnar, framar enn vér. Og naumast synir þad sig, ad þeir sem af sínum eigin verkum réttlætast vilja, og þykjast Christs Fridþægíngar ei vidþurfa, lifi betur og rádvandligar enn hinir, sem fridþægíngu hans sér til frelsis frá Syndinni treysta. Ney, lærdómur sá, ad Gud elskadi oss svo, ad hann gaf oss sinn Son, og sonurinn svo, ad hann dó í vorn stad, gétur framar øllu kroptugliga hrært hjørtu vor til ad elska Gud aptur á mót; því þess fleiri og stærri velgjørdir, sem madur veit sér af Gudi veittar, því líkligra er, ad hann elski hann framar; en nú er elskan trúarinnar líf, eins og hún er løgmálsins uppfylling; og hvé gagnsamur má þá ei sá lærdómur vera, er svo kroptugliga þénar til ad vekja hana í hjarta manns. Svo

dæmdi Jesús, (Luc. 7, 42. 43), ad sá elskadi meira, sem meira veitt væri. Og hvørsu þúsundsinnum stærri náð finnur sá sig ad þyggja hjá Gudi, sem trúir ad Gud hafi gésid sér sinn son, ecki ad eins til lærimeistara, heldur og til lausnara, enn sá ei nema ødru trúir?

Hér fyrir utan er þad adgjætandi: ad lærdómurinn um Jesú fullnægjugjørd, sest rétt andspænis móti lærdóminum um Erfda-syndina, edur ad madur sé vegna hennar undir Guds fordæmníngu, þó eingar syndir adrar drygdi; sem er beint fram eptir postulans Páls kénníngu (Róm. 5, 18. 19), þegar hann seigir: Líka sem Fordæmíngin er, fyrir eins manns synd, komin yfir alla menn, svo er fyrir eins manns réttlæti, lífs-réttlætid komid yfir alla. Og svo sem þeir einir missa Guds náð, sem hana vísvitandi frá sér reka (Gjørn. b. 13, 46), svo er þá víst ad børnin, þó af náttúrunni undir fordæmíngu séu, njóta hennar; ecki einúngis Christinna, heldur og svo, ad minni meiníngu, eins heidíngjanna; já, jafnvel allir þeir medal heidíngja, sem, vegna fávitsku med fróðleika, kunna (eins og Jesús sagdi, Marc. 10. 15) í barnaród ad teljast; og hvørsu ótøluligur fjøldi af mannkyninu verdur þá, fyrir Christs sakir, frelsadur til eylífs lífs, eptir vorum lærdómi: sem allt verdur efasamt, þegar lærdómurinn um

Fridþægíngu Jesú er burtutekinn. Því ef' eing' inn verdur hólpinn nema hann gjörist sem ú n g ' b a r n, en sumir lærendur kénna ad börnin syndlaus séu, þá gétur heldur alls einginn af fullordnum Christnum — því sídur Heidingjum, — hólpinn ordid; nema syndlaus gjörist; en hvörsu margir munu slíkir finnast?

Svo sem þad er nú allareidu synt og sannad, ad Jesú Christs G u d d ó m u r og F r i d þ æ g í n g, eru sem tveir máttarstólpar vorra evangelisku trúarbragda, ad hvörjum sellum, ödrum hverra eda bádum, þessi heilaga bygg' íng er sem ad velli logd, þá hefir mannkyns' ins sálar óvinur hid ákafligasta vidleitast, ad vekja þær meiníngar upp, er þeim hneckja skyldu; en þad er furdanligt, hvörsu þeirra áhángendum kémur ecki saman sín á milli, og skiptast í ymsa flocka. Sumir þeirra láta annan þessara mátt' arstólpa standa, en brjóta annan nidur; nefniliga: sumir neita Jesú guddómi, en láta hans frid' þægíngu vera; adrir láta hans guddóm gilda, en neita hans fridþægíngu, en sumir skúfa hver' utveggju. Nú munu menn vilia spyrja: til hvörs vilja þeir þá láta Jesúm hafa í heiminn komid, sem Fridþægíngu hans neita? Svar: einasta til ad kénna mönnum góda sidu og gudligt líferni og þar ad auki, seigja sumir þeirra, til ad fullvissa menn um, ad Gud vilji ydrandi og betrunar-gjarna syndara til nádar taka, Þar

fyrir, þó þeir ecki látist neita honum um endurlausnara titil, á: þó øll hans endurlausn, ad hafa verid innifalin í því, ad kénna oss med lærdómi sínum og lifnadi veginn til betra lífs, og ad frelsa oss þannig frá villtum vegi. En til hvørs skal þá hans pína og daudi þénad hafa? med henni, heitir þad, stadfesti hann lærdóm sinn, og syndi ad hann vogadist uppá hann ad deya, eins og annar píslarvottur. Adrir láta dauda hans heita sansalígan undirpant fyrir því, ad Gud vilji ydrandi syndurum straffid uppgéfa, þar hann var svo gódur, ad spara ecki sinn eingétinn son fyrir þeirra sakir; og svo sé daudi hans, fyrir þessa skuld, álitinn sem fridþægíngarfórn. Látum oss þessar meiníngar skoda!

I) Hafi Jesús ad eins komid til þess; ad kénna oss góda sidi, med lærdómi sínum og lifnadi; hvad reid oss þá á hans guddómi? Einsamall gódur og heilagur madur, gat allt eins vel, sem nægdi, kénnt oss þad. Vér høfum og í gamla testamentinu allgódan sidalærdóm, ánægianligar upphvatníngar til ydrunar, og margfaldar sannfæríngar um, ad Gud vilji betrunargiarna syndara til nádar taka. Svo Jesús gjørdi oss ecki svo miklu stærra gagn í því tilliti, sídst meira, enn einn af Gudi med stakligum gáfum útbúinn mannligur lærifadir hefdi kunnad ad gjøra. Og hafi Jesús kunnad ad kallast frelsari mann-

anna, fyrir þad hann kéndi ofs góda sidi, og upphvatti til ydrunar, þá verda þar undir eins svo margir heimsins frelsarar, sem þar eru og hafa verid margir gódir sidakénnendur til; og hefir þó einginn þeirra látid sig því nafni nefna nema Jesús af Nazareth. Sidalærdómurinn gat og alls ecki mannkyninu, í því ástandi þad var, einsamall til nota komid. Menn vita ad Rimíngin útmálar manneskjuna, sem einn, eptir Kóngs løgum, til dauda dæmdann landrádamann, fyrir hvørjum eckert liggur annad, enn dragast út til ad lída straffid. En svo lítid gagn sem einn sidakénnari mundi slíkum gjøra, med ad predika honum, midt í því hann væri á leidinni til aftøkustadarins, hvørnig hann ætti ad hegda sér fyrir Kóngi sínum, til ad verda ecki landrádamadur edur þrottins svikari, allt eins lítid gjørir tómur sidalærdómur syndsékri manneskju; Bádir þessir þurfa fyrst ad fá nád og lífgjøf, sá einn hjá Kónginum, sá annar hjá Gudi; og hana þarf þeim fyrst ad predika med áreidanligri vissu; og sídan sé hinn besti sidalærdómur, sem hvørjum um sig hentar, fyrir þeim bryndur.

2) Ad Jesús hafi einúngis ofs til eptirdæmis lifad og lidid, seigir Petur einganveiginn (1 P. 2, 21); þó hann seigi, ad vér af hans dæmi meigum þolinmædina læra; því hans lídunar høfud-tilgáng seigir hann sídar (3, 10)

nefniliga: ad hann hafi lidid fyrir vorar syndir, svo hann færdi oss Gudi. Þad var og líka, ad Jesús þurfti ecki ad vera meira enn manneskja ein — góð og heiløg — til ad géta géfid oss útvortis fullnægjandi dæmi til eptirbreytingar, já, hefdi svoleidis gétad géfid oss þad á vissan hátt ecki óuppbyggiligra, en ella. Því þegar vér trúum því, ad Jesús hafi af sjálfs guddómsins krapti og heilagleika fullur verid, verda oss minni undur, þó hann øllum mønnum betur lifad gjæti, og lidid med dæmalausri þolinmædi; og kunnum því heldur telja oss þad til afbøtunar, þó vér ecki megnum í hans fótspor ad feta; hvør sérhlífnis ástilla hefdi miklu minni verid, ef Jesús verid hefdi einfaldur madur, sem vér, af náttúrunni undir synd seldur, en þó lifad hid ytra, jafnheilagliga sem hann lifdi. En

3) ad Jesú pína og daudi hafi einúngis átt ad þéna til stadfestu lærdómi hans, hafi hann annars guddómlig persóna verid, er fráleitt; því med sínum kraptaverkum hafdi Jesús hann nógsamliga sannad. Og daudi hans mátti í verunni framar veikja vissuna um sannleika hans lærdóms enn efla, þegar menn dæmdu um velþocknun Guds á lærdóminum af afdrifum lærarans. Því þó menn á eptir sannfærdust af hans upprisu um, ad daudi hans ei hefdi verid teikn

Guds ónáðar, þá var það samt ekki dauða hans og pínu í rauninni að þakka. Svo þó Jesús hefði aldrei pínst og dáið, heldur, að endudu sínu lærdóms skeiði, verið með opinberri hátign til himna hafinn, mundi lærdómi hans um gott siðferði og Guðs náð betrunargjörnum syndurum til handa, hafa verið allt eins — ef ei betur — trúað, enn ella. Um píslarvottanna dauða, fyrir sins lærdóms sakir var allt annað mál; þeir vóru einfaldir menn, og hlutu endiliga að deya, hvort eð var; en að frelsa þá alla frá píslarvættis dauða með kraptaverki, var Guðs vísdómi ósambodið. En þó Jesús hefði með kraptaverki frá sinni pínu og dauða frelsast, var eingu meira í spunnið, enn hans upprisu á eptir; þessvegna hlaut þá Jesú dauði að hafa lángt ædra augnamið, enn píslarvottanna. Þetta sama er og svo audsjeð — hvorjum sem það íhugar — af hans pínu ásigkomulagi: hvor gat verið orsök til Jesú sálar angistar, áður enn hans ytri pína byrjaðist, og sem að nockru leiti synist hafa fylgt hönum til enda; um hvað hans minnisverða hróp á krossinum vitnar? því hvör hefði mátt gladari og óbræddari útí píslir og dauða gánga, enn hann; hann, hvorjum samvitskan ei brigslaði um neina synd; hann, er skömmu áður hafði hátídliga í bæn sinni til foðursins, þorað að seigja: e g h e f i f u l l k o m n a ð þ a ð v e r k, s e m þ ú f é c k s t m é r a ð g j ö r a (Joh. 17,

4) og þar á ofan vissi ad pína sín átti skamma stund ad vara, og med svo hátignarligum hætti, sem var hans upprisa frá daudum, ad enda. Nú ef Jesús leid ecki í odru angnamidi, enn hinir seigja, þá var þad, hvorsu daudhræddur og skjálfandi hann géck til písslar sinnar, lítil æra fyrir dygdina, af hvorri einni hennar átreystendur — er þó valla munu þora at játa sig Jesú jafnlugja í henni — heita sjálfum sér og ödrum svo mikilli rósemd, gledi og hughreysti í allskonar mótlæti og dauda. Nei, hefdi Jesú pína og daudi átt einasta ad þéna til ad stadfesta lærdóma hans og kénna oss ad lída, var því augnamidi betur nád, med ad Jesús hefdi verid hinn hughraustasti og gladasti nær hann til hennar géck, til ad sýna hve óhræddur hann væri um síns lærdóms sannleika fyrir Gudi, og hvorsu allir þeir ættu og mættu skapisarnir vera, fyrir hvorjum eins á stofni stædi. Og — hvad kom til, ad píslarvottar hans sídar geingu fyrir utan alla hrygd og hrædslu, já, geingu gladir og oruggir út í píslir og dauda hans vegna, en hann titrandi af hrædslu og harmþrúnginn þeirra vegna? Eckert, nema hin sama sannfæring sem vér hofum, ad hann med dauda sínum fridþægt hefdi fyrir syndir þeirra, hvorra straff hann bar á sálu og líkama, svo þeir hofdu þær, fyrir Guds dómi, eckert framar ad óttast;

O, hvorsu gledilig er sannfæring þessi!

Hvílíkt heilagt hetjuskap fær hún í sálunni uppvakid, festi hún þar sannliga rætur; já, þvílíkt hetjuskap, sem eckert mótlæti, eingin freistíng og einginn daudi fær bugad. Hvert á móti vanti hana, þó madur trúi Jesú sidalærdómi, og Guds nád vid betrada syndara, má madur leíngst efast um, hvørt betran sín hafi nockurn tíma því máli nád, sem hinn vandláti Gud vilji gildt meta, þegar ecki er á annad ad reida sig, og þessvegna aldrei géta fullhugadur fyrir hans augliti byrtst. Vér viljum um sinn enda þessa hugleidíngu, gladir yfir sannfæríngu vorri, um Guds sonar fullnægjugjørd vor vegna, en þó leitá sídar ad fleiri ástædum henni til styrkíngar. Látum oss bidja:

O þú vor guddómligi borgunarmadur, blessadi Jesú! þú sem géfid hefir oss ad þeckja þann allra sæluríkasta lærdóm um þína fridþægíngu, géf ad sannfæríng vor um sannleika hans meigi æ meir og meir vaxandi fara; med sannfæríngunni trúin og traustid á þitt algilda fyrir oss framlagda forlíkunar offur, med trúnni elskan til þín og þíns fødurs, er lagt hefir svo óraskanligan grundvøll vorrar sáluhjálpar; med elskunni hlydnin — glød og sérhlífnislaus hlydni — vid þín og hans bodord; og midt í hlydninni fastheldni og stødugl yndi í því sanna góda, allt til daudans; svo þaraf vottast meigi, ad sannfæríng vor ei sé á sandi bygd, heldur því hellu-

bjargi, sem gjörir hana óbræranliga, þó mótlæt=kuga=bregg, freistinga stormur og sjálf daudans þruma yfir dynji; inn til þess vér et leingur þurfum, gégnum vonarinnar og trúarinnar skuggsjá, ad sannfærast um leyndardóma Guds ríkis, heldur fáum fyrir algjörsa skodun höndlad med öllum heilögum: hvør þar se vídd og leingd, dýpt og hæd Guds nádar í þér, vor guddómligi frelsari! Amen.

# 6ta Hugleiding,

enn nú yfir sama Atridi.

Ínærst fyrirfarandi hugleidíngu yfirvegudum vér rokſemdir þess adal-evangeliska lærdóms um fridþægíngu Guds sonar, og fundum ad meiníngar þeirra, sem seigja ad hans pína og daudi hafi ei haft annad augnamid, enn ad stadfesta sannleika hans kénnínga, eru á litlum ástædum bygdar; nú viljum vér enn fleiri rokſemdir bædi af skynsemi og Ritníngu hér til leida. Eg hefi ádur minst á, ad nockrir sem þó synast vilja medalveiginn þræda — nefna Jesú dauda sansasligan undirpant uppá Guds miskunsemi, og ad hann þessvegna sé fridþægíngar-fórn kalladur; en þad er mikid tvírædt ordatiltæki, og synist géfa þaun skilníng, sem hans daudi hafi þó eingin sonn fórn fyrir heimsins syndir í rauninni verid, heldur adeins nefndur svo. Og hvornig kunni daudi hans, svo skilinn, ad gjora mann fullvissari enn ella, um Guds nád, vid sig, sem syndara, þegar madur hugsar til þessara Jesú orda: ef þeir gjora þetta vid hid

grænatréd, hvad mun þá ské vidhid þurra? Nei, skynsemi og ritníng ógylda — med sterkum rökum — ecki einúngis þær ádur framfærdu hreint mótsettu, heldur og þessa sídursku twírædu útþýdíngu þessa mikilvæga málefnis. Ef þaug opinberudu Trúarbrogd, seigir skynsemin, eru eckert annad enn sídaligt uppmentunar = medal Guds vid mannkynid, edur med einfaldari ordum ad seigja: ef Jesú híngadkomu adalaugnamid var; med lærdómi sínum, ad kénna mönnum þann lifnad, fyrir hvorn þeir einskostar gjætu þóknast Gudi, sá menn aldrei úr því spursmáli leyst: hvarfyrir ad Gud þá svo sídla og þar á ofan ei nema einstöku þjódum, opinberad hafi medal þetta, svo þúsúnd ættkvíslir hafa, vegna skorts á því, blotid ad sitja; sem Ritníngin seigir, í dimmu og daudans skugga? úr þessu, seigi eg, verdur aldrei leyst med því móti, nema ad gjöra Gud partiskan, er ecki vilji jafnt allra manna velferd; en þar á móti, trúi menn því, ad þaug opinberudu trúarbrogd hafi helst átt ad þéna, til ad auglysa mönnum einsháttar yfirnáttúrligt hjálparmedal, sem krapt hefdi jafnvel til ad gjöra þá luckuliga, er eckert af því vissu,; svo framt þeir ei af ásettu yfirtrædu þad náttúrliga uppmentunarmedal Guds (nefniliga lögmál samvitskunnar), sem öllum mönnum á öllum öldum hefir med-

deilt verid, þá géta menn miklu heldur, án nidr-unar vid Gud, skilid, hvar fyrir hann ei vildi fyrri né almennar, enn skéd hefir, bóda lærdóm þann, er frá medali þessu hinu mikla skírir; nefni-liga: ecki fyrri né vídar enn hann áleit mann-kynid hæst ordid móti þeirri bodun svo ad taka, ad þess andliga heilsubót yrdi ad vissari.. Ecki ólíkt og einn læknir géfur opt inn börnum, og vitfyrríngum, sem þó láta vid sig ráda, þeim óvit-andi, þad sama medal, er hann auglýsir og fyrir-skrifar rádsettum og fulltída manneskjum. Allt fyrir þad verdur þó lækníngin þess vissari, sem sá, er vidtekur, er hæfari og trúrri læknirsins reglum ad fylgja, enda þó hinum í bland kunni þad líka ad hrífa, og þessvegna mesta velgjörd ad opinbera þad, þess náttúru og verkunar-máta, þeim sem opinberan sú má ad meiru haldi koma, en ella. Enn framar, og yfir höfud, ad seigja, gjörir þad hinn eiginliga útleggíngar-hátt, u m t i l g á n g J e s u d a u d a, í mesta máta tortryggjandi, já, aldeilis ógildan, ad hann sumpart er þvert á móti ritníngunni, sumpart finst hvörgi í henni; svo til dæmis finst hvörgi í henni sagt: a d J e s ú s h a f i m e d d a u d a s í n u m s t a d f e s t l æ r d ó m s i n n; hvörgi a d h a n n s é u n d i r p a n t u r G u d s m i s k u n-a r, edur þessháttar; en óendanliga finst þad bædi í því gamla og nýa Testamenti, a d h a n n d á i d h a f i s e m f o r l í k u n a r f ó r n f y r i r

heimsins syndir. Hvor hefir þá géfid mønnum rétt til ad útleggja ord Ritníngarinnar ødruvísi enn þaug hljóda? einkanliga þar sú ordrétta útleggíng ecki einasta eins, heldur lángt framar, heidrar Gud og uppvekur hans elsku í hjarta mans, enn sú sjálfsmídada. Eda mundi Gud tala twírædt fyrir mønnum? Mundi hann ecki í þessu allramikilvægasta sáluhjálpar-atridi, tala svo, ad sá einfaldi gjæti eins vel skilid hann, sem sá hinn lærdi? Mundi hann vilja láta þá ólærdu framar trúa uppá myndugleika mannanna orda, enn sinna? Hvad þó hlaut í þessu tilliti ad ské; því þegar þeim ólærda er kénnt af þeim lærda, ad sú sanna meiníng Ritníngarinnar um tilgáng Jesú: dauda sé øll ønnur enn sú bókstafliga, sem hann sjálfur fundid gétur, hlytur hann, ef hann hinni trúa skal, ad trúa henni uppá ord og trú þess lærda, en ecki eptir sínum eiginn skilníngi og sannfæríngu. Hvert á móti, nær hann trúir hinni eldri útleggíngu, sjer hann og skilur sjálfur, þegar hann les Ritnínguna, ad hún samhljódar hennar óumbreyttum ordum og talsháttum, svo hann gétur þá sagt vid sinn lærimeistara, líkt og þeir samversku søgdu fordum vid kvinnuna, sem Jesús taladi vid hjá Jacobs brunni (Joh. 4, 42) nú trúi eg ecki framar fyrir þín ord, því eg sjálfur sje þad sama og skil, út af Ritníngarinnar eigin ordum. Hér af flytur: ad hafi sú

ordrétta útlegging þurft í fyrstu með kraptaverkum að sannast, þarf sú óeiginliga það öllu heldur. En sannleikurinn kann aldrei sjálfum sér að mótstríða, svo vér þurfum þeirra eins litt við, eins og þaug heldur aldrei géfast munu. Það forsvar sumra — ef forsvar skyldi kallast — fyrir ordunum mótsettri útleggíngu um augnamið Jesú dauða: að menn þó hljóti sumstaðar að taka Ritníngarinnar orð í óeiginligri meiníngu, og þessvegna kunni það líka vera um þetta efni, er svo hégómlig, sem ordið gétur.

Þó það satt sé, að Ritníngarinnar orð verði sumstaðar figúruliga að skiljast, er það vart annarstaðar — í tilliti til trúar og siðalærdóms — er þar sem meiníng somu orda finst annarstaðar í Ritníngunni figúrulaust framsett, edur hvar efnisins og ræðunnar náttúra það berliga útkrefur; Svo sem til dæmis: Jesú eptirlíkíngar, og flerri figúrulig ordatiltæki; sem: að stynga út auga sitt, sníða af sér fót edur hønd, ef það hneigslar mann, krossfesta holdið, deyða jarðneska limu og fl. þá vita menn vel, að þesshåttar orð eiga ecki eptir bókstafnum að skiljast, því hin sanna meiníng þeirra útlistast figúrulaust annarstaðar; svo sem af Col. 3, 5 skilst að fyrir þessa limu mans meintir séu, ecki limir þess syniliga líkama vors, heldur vondar girndir í sálunni. Hvert á móti finst aldrei að seigja odruvísi talað í Ritníngunni um Jesú pínu og dauða, en sem forlík-

unar förn fyrir manna syndir og frelsis = medal frá þeirra afleidíngum, sem ádur er syndt; og þad sem enn meira er, ad vér höfum einkum tvær greinir i postulans Páls brèfum, er berliga syna hvörsu hann tilgáng Jesu dauda skilid hefir og viljad skiljast láta. Sú önnur stendur Gal. 2, 24, hvar hann seigir: *ad Christur væri tilforgéfins dáinn, ef réttlætid séingist fyrir lögmálid*, hvad alls ecki sagst gat med sönnu, ef hann dó til ad stadfesta hann lærdóm, ad menn réttlætist fyrir hlydnina vid Guds bod; en ef hann dó til ad réttlæta oss sjálfur med dauda sínum, þá var þess eingin þörf ef réttlætid feckst fyrir tóma hlydnina. Hin greinin stendur 1 Cor. 15, 14, hvar postulinn tekur enn nú frekar til orda um sama efni; hann seigir: *ad hafi Christur ecki uppris id, þá sé trú in á hann hrein t ó nyt, og þeir fortapadir sem dáid hafi í Christo*. Af þessum ordum er enn aptur audrádid: ad *trúin á Christ* hefir nockud annad lángt stærra fyrir augnamid, enn ydrunar og sidalærdóm hans; þvi hefdi endurlausn hans verid einúngis í hönum innifalin, hvörnig gat þad þá skadad sáluhjálp þeirra, sem hönum trúdu og hlyddu, þó Jesús aldrei upprisid hefdi? Var þad rétt ad láta þá gjalda Jesú upprisuleysis? En hafi Jesú daudi átt ad vera til fridþægíngar fyrir syndir vorar, þá er audsjed, ad trúin á

hann var alls ónyt til sáluhjálpar, ef hann uppreis ecki, þvi þá féll undireins allt gildi hans dauda ofs til fridþægingar, sem eins þurfti vid, þó sidalærdómi hefdi sem best hlydt verid *).

Sú endiliga og hræka ályktan hlytur þá ad dragast út af öllu þessu: ad at þeim ádurtöldu fernslags meiningum um Guddóm Christs og hans Fridþægingu, getur ei nema einúngis ein sönn verid, og samhljóda bædi skynsemi og Ritningu.

Sú fyrsta, sem neitar Christs Guddómi en játar hans Fridþægingu, er ad hálfu leiti móti Ritningunni og ad hálfu móti skynseminni; móti Ritningunni, þar út af henni — sem ádur er syndt — eru jafngildar röksemdir fyrir Guddómi Christs sem Fridþægingu; en móti skynseminni, þar medalid var þá ecki sambodid augnamidinu, þetta nefniliga þúsundsinnum stærra enn hitt.

Sú önnur meining, sem játar Guddóm Christs, en neitar hans Fridþægingu, er sem hin, ad nockruleiti med, ad nockruleiti móti Ritningu

*) Í þessum postulans ordum liggur einhvör hin sterkasta röksemd fyrir Fridþægingar lærdómsins naudsyn, og hvörsu sá af Guds Anda hátt upplysti Páll í þessu efni þeinkt hefir; þó offáir syniſt þad adgjætt hafa.

og skynsemi; því hér er medalid óendanliga stærra enn augnamidid, og þessvegna óverdugt Guds visdómi.

Sú þ r i d j a, sem neitar bædi Jesú Guddómi og Fridþægíngu, er ad því leiti skynsamari hinum, ad hún lætur medal og augnamid samþjóda hvort ødru, en er þó ad ødruleiti skynseminni gagnstæd, þar hún algjørliga stríðir móti Ritníngunni; því þad er skynseminni mótstædiligt, ad trúa ecki Gudi framar enn sinni innbirlíngu.

Svo hlytur þá hin sídarsta og f i ó r d a meiníngin ad vera hin sanna, nefniliga sú: a d C h r i s t u r v e r i d h a f i b æ d i G u d o g M a d u r, o g a d h a n n d á i d h a f i s e m F r i d þ æ g í n g a r - f ó r n f y r i r h e i m s i n s s y n d i r; þar hún samhljódar ordrétt og augljósliga heil. Ritníngu, og þar med undir eins — á þann hátt sem ádur er syndt, — heilbrigdri skynsemi. Gud veri fyrir þad lofadur og blessadur!

---

Hitt annad fleira, sem Endurbætendur vorrar trúar sett hafa í þetta atridi, um G u d s S o n, eptir ad þeir med berum og sterkum ordum hafa sagt: a d h a n n s e m s l á t r u n a r - f ó r n d á i d h a fi f y r i r h e i m s i n s s y n d i r, nefniliga: a d h a n n h a fi n i d u r s t i g i d t i l H e l v í t i s, h a fi u p p r i s i d á þ r i d j a

deigi, hafi uppstigid til Himna, hafi setst til Fødursins hægri handar; ad hann ríki yfir øllum skëpnum, helgi fyrir heil. And a hjørtu trúadra, og ad hann muni loksins apturkoma til ad dæma lifendur og dauda, er ad mestu alltsaman jafnljósliga bygt á ordum Ritníngarinnar, sem lærdómurinn um hans Guddóm og Fridþægíngu, og verdur allt — ad honum medteknum — fulltrúanligt og áreidanligt. En svo leingi sem þessi undirstødu-lærdómur er efadur eda neitadur, mætà hinir somu forløgum; eins og líkligt er, ad þegar á grundvøllinn er rádist, muni yfirbyggíngunni ei heldur hlíft verda.

Lærdómurinn um Jesú Nidurstígníngu til Helvítis, er bygdur á ordum Péturs (1 P. 3, 19. 20), inní hvørn ad skygnast er fyrir oss óþarfi, þar hann eiginliga ecki vidkémur voru ástandi, en heldur þó Jesúm merkiliga. En ad Jesús hafi nidurstigid til ad lída nockud edur berjast vid djøfulinn, en ei ad eins til ad prédika fyrir øndunum í fángelsinu, er eins heimskulig og ósønn ímindan, sem hitt er fánýt spuríng ad spyrja: hvad hann og til hvørs hann þeim predikad hafi? Látum oss slíka ósæmandi og ónýta forvitni fordast!

Upprisa Christs á þridja deigi er í heil. Ritníngu álitin einhvør mikilvægasta

setning trúarinnar, jó, svo mikilvæg, ad Páll brúkar svo sterk ord þarum (1 Cor. 15, 14); ad sé Christur ecki uppristinn, þá sé bædi lærdómurinn um hann og trúin á hann, til einkis; þar upprisa hans líka sem innsiglaði og kórónaði allar hans athafnir, svo allt það sem hann hafdi um sig sagt, bædi sem Frædara og Frelsara mannanna vard nú aldeilis óyggjanligt. Nú þar, sem menn, gátu þó allt eins hlýdt lærdómi Jesú um ydrun og líferniś betrun, þó aldrei hefdi hann upprisið af dauda, þá ef hlýdnin vid þetta var einhlyt til sáluhjálpar, hefdu menn gétad án hans upprisu hjálpir ordid.

En upprisa hans innsiglaði eigiliga gildi hans dauda oss til fridþægingar hjá Gudi, hvörs af því ecki mátti án vera, þá reid svo mikid á upprisunni, þar ella var audsjed, ad augnamid hans dauda var tapad, og þeir tapadir sem á það treyst höfdu, hvörsu vel sem þeir höfdu hans sidalærdómi hlýdt. Þessi postulligi vitnisburdur er, sem ádur er sagt, í mesta máta eptirtektaverdur.

Sama er um setu Christs til Födurs síns hægri handar ad seigja, hún er sterk rotsemd fyrir hans Guddómi, en á þó ad skiliast eptir hans manndómi; því manndómurinn kunni ad upphefiast, en Guddómurinn ecki, sem

sumbreytanligur er, en án Guddómsins íbúdar kunni hann þó aldrei á þann hátt upphafinn verda; því einginn kann ad taka á móti sömu tign sem Gud, nema Gud sjálfur, og hann sami var og í þeim upphafna Jesú.

Stjórnan Jesú yfir öllum sképnum eptir hans manndómi flytur náttúrliga af hans upphafningu; því sá sem hefir sömu tign og Gud, hlytur líka ad hafa sömu makt og vald sem hann. H. Anda Sending synir líka og sannar Jesú eylífu guddómligu hátign; því hvør kann — sem sjálfrádi — ad senda hann, nema Gud sjálfur? Hvør gétur haft rád á honum, sem ransakar alla hluti og jafnvel Guds leyndarráð, nema sá øllu rædur? Þennan sinn anda sendi Jesús lærisveinum sínum á allra frábærasta hátt, því þeir þurftu, fyrir hans krapt, ad útbúast med óalmenniligri dád og dugnadi til síns embættis. En hann sendir hann og svo øllum Christnum á sinn hátt; fyrst þeim óumvendtu, til ad sannfæra þá med Guds ordi, í samvitskunni, um syndina og reyna til ad umvenda þeim (Joh. 16, 8. Gb. 7, 51); þar næst þeim trúudu til ad styrkja þá í trúnni, voninni og kjærleikanum; hvar fyrir ad allir þeir, sem Guds andi leidir, þeir eru Guds børn (Rom. 8, 14). En þad sinnislag, sem hann í þeim, er honum rúm géfa, verkar, er alltíd og hjá øllum þeim, sjálfu sér líkt; þad er

fullt af audmykt fyrir Gudi, af kiærleika til Guds og af trúnni á Jesúm Christ. Þeir eru bænræknir, samvitskufullir, mannelskugiæddir, þol-inmódir og yfir høfud til allra gódra verka hæfir og reidubúnir. Loksins er Jesú, sem Guds og manns, aptur koma til dómsins, svo hátignarfull athøfn, ad hún voldugliga sannar hans Guddóms dyrd og hans Fridþægingar augna-mid; hid fyrra med því, ad einginn kann í því-líkan dóm ad gánga, nema Gud einn, því hann er heimsins dómari (Ps. 94, 2).

En þad sídara, þar undirstada hans dóms, til réttlætíngar, verdur trúin, en til sakfellíngar, vantrúin (Joh. 3, 18. 36); um hverjar athafnir hvers eins í lifanda lífi, vitni borid hafa (Matth. 25, 35 — 46).

Nú látum oss þá, kiærir brædur! af øllu hiarta þacka Gudi vorum himneska Fødur, fyrir þennan allra dyrmætasta lærdóm, um hans ein-gétinn Son Jesúm Christ, er skírir oss frá, ad hann hafi gétid oss hann:

Fyrst til ad taka uppá sig náttúru vora, og gjørast oss ad øllu líkur, ad syndinni undan-tekinni, og er þannveg ordinn vor blódteingda bródir og betsti vinur. Þarnæst til ad verda Fridþægíngar fórn fyrir syndir vorar, og þannig siálfur lúka med siálfs síns uppáteknu manndóms fórnfæríngu, Fødursins og sinn eigin guddómliga

réttlæti, syndásekt vora, ef vér á hann trúum, elskum hann og hlýdum honum. Í þridja máta til ad vera vor lærimeistari, sem kénni oss rétta Guds götu, nefniliga hvörnig dyrka eigum Gud í andá og sannleika og vera honum þócknanligir. Í fiórda máta til ad vera vor talsmadur hiá Fodurnum, hvör æfinliga lifir til ad bidja fyrir oss; og í fimta lagi, til ad verda vor dómari á sídarsta deigi. Og af hvörjum kunnum vér ad vænta oss nádugra dóms enn honum, sem er vor bródir, vor medalgángari og borgunarmadur? Því þegar verjandinn má siálfur í sökinni dæma, er audvitad hvörsu hún fellur, þá ástædur ecki brestur. Svo er þad víst, ad vér alls eckert hofum ad óttast fyrir hans dómi, nema vantrú vora, hafi hún komid oss í lífinu til, annadhvört ad forsmá lausnargjald hans svo sem ad litlu verdi, edur annarskostar misbrúka þad til ad þióna syndinni af ásettu í þess trausti; því þá snyst oss þad til fordæmingar, sem annars ordid hefdi oss til frelsis.

Tilbidjum þá þennan Gud og mann dagliga, og förum ad Davíds rádum (Ps. 2, 2), ad kyssa Soninn (med munni elsku og hlydnis-fullrar trúar), svo hann verdi oss ecki reidur. Framberum svo dagliga í trúnni, fyrir hans Fodur og vorn Fodur, hans Gud og vorn Gud, fórn hans eigin blóds, til ad fá vorra synda fyrirgéfningu. Elsk-

um þennan vorn himneska bródur og medalgáng-ara, en óttumst hann þó, sem vorn Kóng og dómara, og munum vér aldeilis ecki þurfa skjálfandi ad standa fyrir dómstóli hans á sídarsta deigi, heldur fagnandi móti hönum renna, í hans tilkomu. Látum oss þá vera hans trúlynda þegna hér í hans nádar ríki, og kosta kapps um, ad koma sem flestum til ad verda þad ásamt oss; en vara þá inniliga, sem þad eru, vid svóvel vantrúar sem andvaraleysis Drottins svikum; þá munum vér fyrir víst odlast trúrra þjóna laun ad lyktum.

Gud géfi oss öllum þá nád!

Látum oss bidja!

Eylífliga lofadur vertu, Herra Jesú! þú Gud og madur í einni persónu! Lofadur vertu fyrir þína manndóms-tekníngu, med hvörri þú gjördist vor bródir og medalgángari; fyrir þinn himneska lærdóm og heilaga lifnad, med hvörjum þú hefir vísad oss veiginn til eylífs lífs; og fyrir þína fridþægjandi pínu og dauda, med hvörri þú ordinn ert vor borgunarmadur, og hefir sætt oss vid þinn eylífa fodur, svo vér erum nú allir — sem á þig trúum med lifandi trú — hans óska-born í þér. Æ vor blessadi bródir! bid þú fyrir oss, ad vor trú á þig, ecki þrotni, heldur sé sonn og lifandi, til lofs þinni dýrdarligu nád. Veit oss ad læra og æfa þá yppurstu list allra lista, ad frambera þína fridþægíngar

fórn fyrir Guðs augliti í trúnni, svo syndir vorar verði oss fyrirgéfnar, en þitt réttlæti oss tilreiknað!

Géf oss þinn heil. Anda, eins og þú gafst oss sjálfan þig, svo hann gjöri oss hæfa til að taka á móti þér og þinni friðþægíngu verðugliga; til að fylgja þér og þínum lærdómi trúliga; og til að taka uppá oss þinn og vorn kross og bera hann þolinmóðliga! Vér heitum, því, að standa ecki á móti þínum heil. Anda, heldur géfa honum rúm hjá oss; svo hann meigi leiða oss í allan sannleika, en vér reynast sannleikanum trúir allt til dauðans; svo dauðinn, í gégnum þinn dóm, verði oss inngángur til lífsins! Bænheyr oss vor Guð og Frelsari, vor Drottinn og Dómari! Amen!

# 7da Hugleiding,

út af því fjórda Atridi, um Réttlætínguna.

Sømuleidis kénna (vorir Safnadir) ad manneskjur géti ecki af eigin kroptum, forþénustu edur verkum, réttlátir ordid í Guds augliti, heldur ad þeir réttlætist af náð, vegna Christs, fyrir trúna (þegar) þeir (nefniliga) trúa því, ad þeir verdi til nádar teknir og syndirnar verdi sér fyrirgéfnar, fyrir Christs sakir, hvør med sínum dauda fullnægiu gjørdi fyrir syndir vorar. Þessa trú reiknar Gud til réttlætis, fyrir sjálfs síns augliti. Rom. 3 og 4 Cap.

Þetta dyrmæta atridi trúar vorrar hángir svo náqvæmliga af því nærst undanfarna, sem ávøxtur af eik. Jesú Christs fridþægjandi daudi er grundvøllur vorrar sáluhjálpar, en vor rettlæting hjá Gudi, fyrir hans sakir, er sú mikilvægasta og fyrsta undirstada yfirbyggíngarinnar yfir þennan grundvøll. Þessi lærdómur er einkunn-

ar lærdómur þeirrar evangelisku kyrkju; hann er kjarni Evangelii, og ad honum sbyrtu teknum, er eckert Evangelium framar. Lúthérus samlíkir honum vid sólina. En hvorsu miøg óvinur sálna vorra hafi leitast vid ad formyrkva sólu þessa, verdur ei útsagt. Tvennslags brøgdum hefir hann þar til einkanliga beitt, nefniliga med því ad draga manneskjur óformerkt annadhvort inní Hjátrúar edur Vantrúar myrkur.

Af því Ritníngin seigir ad trúin sé frávorri hálfu alls ómissandi til réttlætíngar fyrir Gudi, smídudu menn sér um hríd, onnur réttlætíngar medøl enn skyldi, edur sem Ritníngin tilvísar, sem betur áttu vid mannliga náttúru, og kostudu meiri útvortis enn innvortis audmykt, og þetta skédi undir Páfadóminum. En nær hreinsendur trúarbrágdanna syndu ofaná þessara sjálfsmídudu réttlætismedala ógildi, og vísudu mønnum aptur til þess eina og sanna medals, sem heiløg Ritníng kénnir, gat samt hin stolta mansnáttúra ei til lángframa þar vid unad, af því þess rétta brúkun heimtar af manni svo stóra innvortis audmykt og sjálfs afneitun, og skúfudu þessvegna og svo hinu sanna medali, ásamt hinum sjálfsmídudu; en þeinktu sér í þess stad, ad standast fyrir Gudi med sinni eigin útvortis, opt þó í bland hræsnisfullu, borgaraligu dygd og svo kalladri skyldna uppfyllíngu. Nú þó smínd-

an þessi feingi fyrir skynseminnar dómstóli — þá þeirrar, sem framar brúkar sjálfvalin lög en Guðs til að dæma eptir. — meira álit enn hin fyrri, fara þó báðar allt eins lángt frá kénníngu Ritníngarinnar; og sú síðara þeim mun leingra, sem hún kastar að ollu, en hin að hálfu leiti, því réttlætingar medali, sem Guð hefir syndugum í Evangelio síns sonar, synt og gefið. En látum oss þá skoda, hvað heilog Ritníng hér um seigir, því á hennar lærdóm — svo sem Guðs eigin vitnisburd, en ecki hálfblindrar og lannsköltrar mannligrar skynsemi — er oss, í þessu allramikilvægasta málefni, óhult oss að reida. Og — hvað seigir hún?

Vilda eg tilleida alla hennar vitnisburdi að þessu málefni, mætti ritast heil bók; þessvegna vil eg þá láta hér nægja, þá mikilvægustu. Fyrst um það, hvað mansins eigið réttlæti ógilldt sé í Guðs augum: þá seigir David (í Ps. 14, 23 og 53, 3—9), að á meðal allra manna séinginn réttlátur, allir séu frá Guði viknir, allir ónytir, og eínginn sé, sá er gott gjori, já, eck i einn einasti; og aldeilis somu orð framsærir postulinn Páll Rom. 3, 10—12); og hvað getur frekara sagst mannligu réttlæti til nidrunar? Hjá Esaj. 64, 5. stendur: að allir vér séum óhreinir fyrir Guði, og allt vort réttlæti, sem saurugt klæði. Páll seigir (Rom. 3,

23) ad allir hafi syndgad, og séu sómakausir fyrir Gudi. Lika í tveim stødum, nefniliga Rom. 11, 32 og Gal. 3, 22: ad Gud hafi ályktad ad allir væru undir synd, og sekir fyrir sinum augum; og hjá Jerem. kvedur svo ad: Hjarta manns er aldeilis ráng- snúid og og rótspillt, hvør kann ad þeckja þad? og Jesús sjálfur seigir (Luc. 17, 10), ad þeir sem gjørt hafi allt hvad þeim bodid sé, skuli þó reikna sig ónyta þjóna; hvad þá hinir, sem ei hafa gjørdt þúsundasta part þess, en aptur á móti þúsundfaldt hins, sem bannad er?

Þessu nærst vottar Ritníngin berliga, ad manneskjan géti aldeilis ecki af sjálfsdádum, úr þessu fordæmíngar standi komist; til dæmis, seigir Jesús (Luc. 15, 15) án min fáid þér einkis orkad; og Páll (Rom. 3, 5) ad vér ecki séum af sjálfum oss neytir nockud gott ad hugleida, sem af sjálfum oss: til; og (Tit. 1, 16) ad vantrúadar manneskjur séu til allra gódra verka ófærar. Af þessu øllu er nógliga sannad, ad eingin manneskja fái, med sitt eigid réttlæti, fyrir Gudi stadist; því þar sem allir svo óbendanliga sekir eru vid Gudslogmál, til hugrenninga, orda og verka, en þad lysir ótvírædum fordæmíngarúrskurdi yfir alla sem þad ecki halda, med þessum

ordum: bølvadur veri hvør sá er ei heldur allt þad, sem í lögmálinu skrifad er (Gal. 3, 10). Þá er hér af audsied hvørnig manneskjur eru í þessu tilliti álitnar í Guds augum.

En hvørja bót ad Ritníngin leggi mannkyninu, og hvør rád hún kénni því, ad komast úr þessu hörmuliga ástandi, til ad ávinna aptur nád síns skapara, viljum vér nú í þridja máta skoda.

Øll hennar rádleggíng innifelst þá í þessu þrennu: ad ydrast, trúa og betra sig. Stundum nefnir hún ad eins eitt af atridum þessum, stundum fleiri; stundum skipar hún eptir vorri útleggíngu, ad ydrast, og þydir þá ord þad ymist ad taka sinnaskipti (Matth. 3, 2. Gb. 2, 38), ymist ad ángrast med hugsyki út af sínu fyrra athæfi (Matth. 21, 29. 27, 3), ymist ad snúa aptur edur hverfa frá því vonda til göds (Gb. 3, 19. 1 Theff. 1, 9).

Stundum samteingir Ritníngin ydrun og trú (Marc. 1, 15 Gb. 20, 21 Ebr. 6, 1); stundum rádleggur hún trúna út af fyrir sig (Marc. 16, 16. Joh 3, 16. Gb. 16, 31); stundum nefnir hún ad eins liferniss betrunina (Ef. 1, 16. 17); stundum ydrun og liferniss-betrun saman (Luc. 3, 8). En af øllu þessu er þó trúin talin í fyrirrúmi, og hún, einkum i nyá Testamentinu, optast reiknud sem høfud-atridid af

þessu þrennu, og fyrir hvorsa eiginliga madur réttlátur verdi fyrir Gudi, jafnvel þó allt þetta þrennt verdi í raunínni ad fylgjast, vegna þess s e n n i t r ú getur ecki annars stad haft. Ein eptirlíking kann þetta ad nockruleiti upplýsa:

Einn er tekinn af banvænu sjúkdóms efni, en þvi er þó svo varid, ad hann finnur ecki í kroppnum til verkja af því. Vinur hans rádleggur honum ad gæta heilsu sinnar og lífs, og segir honum, ad nema hann í tíma brepti lífernadarmáta sínum og leiti sér lækníngar, sé honum vissuliga bol og bani búinn, innan leingri edur skémri tíma. Trúi hann nú þessu, verdur hann fyrst hugsjúkur og hræddur um líf sitt, og heldur sér kannské nockud frá því versta, sem heilsu hans spilt hefir.

Þó frjast hann ecki samt vid þetta frá banasýkis tilefninu. Þessvegna fer hann til læknirsins og bidur um hjálp. Þessi tekur honum vel og fær honum medal, sem hann segir hann skuli dagliga brúka og inntaka, eptir vissum reglum, er hann honum kénnir, og undir eins sétur honum lifnadar-ordu, frá hvorri hann má ecki víkja;

Þetta medal þyggur nú hinn sjúki med elsku og þacklæti til læknarans, og brúkar þad svo trúliga sem hann gétur, eptir hans fyrirskrift. Nú er audséd, ad allt þetta þrennt verdur ad fylgjast hjá þeim sjúka, ef hann lækníngu fá skal;

Fyrst, að verða svo hræddur um heilsu sína og líf, að hann leiti sér lækningar; þar næst, að hann biðji læknarann um hana, og brúki meðal það, hann hjá honum fær, dyggiliga; og í þriðja máta, að hann fylgi þeim réttu lifnaðar-reglum fyrr og síðar. Eingu að síður er þó sjálft meðalið það eina af öllu þessu þrennu, sem eiginliga læknar hann, en hvörki kvíðinn fyrir lífs- og heilsu-missirinum, né fráhald sums þess, er áður ól banatilefnið í hans líkama. Meðalið hlýtur að hreinsa blóð hans og vessa, og líka sem endurnýa hans náttúru. Vidlíkt þessu geingur til fyrir einum syndara, er læknast vill af sinni andligu syndasýki. Fyrst verður hann að láta telja sér trú um fár sálar sinnar og verða hugsjúkur út af því; og verði hann það af alvöru, tekur hann að halda sér frá þeim líferniss-máta, er hann berliga þeckir banvænan sálu sinni; þó læknast hann samt aldeilis ecki af þessu. Hann fer því að snúa sér til Guðs, og biðja hann að bæta úr böli sínu; góð byrjun er þetta að vísu, þó ei fullnóg til lækningar. Nú ráðleggur Guð honum í orði sínu dugligt meðal, nefniliga sins Sonar Jesú friðþægingu, hvarri hann þá með auðmjúkasta þackláti og elsku til Guðs í Christo mótitekur; og í fastri trú, til orða Guðs, að sér til fullrar lækningar þéna muni, dyggiliga brúkar. Gjöri nú syndarinn þetta, sjá! þá tekur honum að

batna; hans innri madur tekur ad hreinsast, og svo sem nytt lif og nyir lifskraptar ad koma upp í hans sálu. Þessu blessada medali á hann nú í raun og veru ad þacka sína heilsubót; hvørs brúkan er þad sama, sem vér, eptir Evangelio, køllum sáluhjálpliga trú. Nú fylgir þad sjálfsagt med, ad sú til andligs bata komna manneskja, verdur ad fordast þad, sem ádur spilti heilsu hennar, nefniliga Syndina, og brúka, med trúnni, midt í bæn og ákalli, dagliga dags, þad sama heilsubótar medal, sem Gud henni í Jesú Christo gefid hefir, ad medfylgjandi þeim fyrirsetta lifnadar-máta; hvad allt ad kjærleiki til þessa síns besta velgjørara, og áhyggjusemi fyrir vidhaldi heilsu sinnar, gjorir henni audveldt og inndælt.

En nú ad sanna þad framar, ad trúin á Jesú fridþægingu sé adal-undirstada mannsins réttlætingar (eins og inntaka og brúkun læknismedalsins er undirstada mannsins heilsubótar), er nærsta audveldt, einkum ad vísu út af nýa Testamentinu, í hvorju ad rót og náttúra réttlætingar vorrar fyrir Gudi, var vid þad ljós, er Jesús og postular hans inn í heiminn leiddu, enn nú berligar fyrir sjónir sett, enn í því gamla. Allt fyrir þad má þó út af því gamla Testamenti allvíss rök til þess leida, ad trúin á Messíam, en verkin ecki, séu mannsins réttlætingar undirstada. Var ecki Abraham reiknad

þad til réttlætis, ad hann trúdi Gudi (1 Mos. 15, 6); og til hvørs trúdi hann hönum, nema þess, ad hann vildi gefa hönum son, í hvørjum blessast skyldu allar þjódir? og hvør var sá sonur, nema Jesús Christur? Byrjar ecki Esajas sinn 53 Capit. med umkvortun trúarleysis (sem synir hennar naudsyn), til þess merkiliga spádóms um Messiam, sem réttlæta mundi marga fyrir þad hann bæri þeirra misgjørdir (Ps. 11)? Seigir ecki Jeremias (33, 16) ad hann muni verda kalladur Jehóva vort réttlæti; hvørs auga hann seigir (5, 3) ad líti eptir trúnni? Nefnir ecki Esajas (26, 2) þá sannchristnu á nya Testamentisins øldum: þad réttláta fólkid, sem trúna vardveiti? Seigir ecki Drottinn vid sitt Fólk hjá Hos. 2, 20. ad hann vilji trúlofa sér þad í trúnni? Já, seigir hátídliga hjá Habakuk (2, 4) ad sá réttláti af trúnni lifa muni; hvor ord postulinn Páll (Rom. 1, 17) heimfærir til trúarinnar á Jesúm, er réttlæti ránglátan. Og ad upplýstir Gydingar hafi í øllu þessu haft sérligt tillit til fórnardauda Messiæ, sem med fórnfæríngunum fyrirmindadur var, sjest berliga af því, ad Esaias spámadur, Daniel og fleiri tala um Messiæ fórnardauda, en fórnirnar áttu þá ad vera til fridþægíngar fyrir syndirnar (3 Mos. 16, 30.

17, 1); hvørjar Messías seigir sjálfur (Ps. 40, 7. 8): að Guð þó ecki í rauninni gildar taki, enn hann sjálfur vilji, með sjálfum sér, þeirra augnamið uppfylla. Merkilig er og sága sú, er finst í einni bók Gydinga, er Jalkút nefnist: að sá hafi síður verið, að þegar presturinn lagði hönd sína yfir fórnar-féð, þá hafi hann minnt þá, sem fórnina frambáru, á, að Messías mundi á sínum tíma, sem fórn þessi, slátraður verða.

Jafnvel þetta og margt fleira, sem í gamla testamentinu finst, sé algild rök þess, að t r ú i n á Messíam og hans f j á r s ø o ff r u n fyrir syndir fólksins, hafi þá álitin verið undirstaða fridarins við Guð; síðan þó, sem von er, þessi blessaði lærdómur með enn skjærari glansa fram í nýa testamentinu; hvar og svo vottast með berum orðum, að sáma trú hafi þó, eins og áður er sagt, verið í gamla testamentinu. Því þar sem Jesús sjálfur (Luc. 24, 27. 28) útlagði svoleiðis Ritningarnar, a ð s é r h e f ð i b o r i ð a ð l í ð a o g i n n g á n g a í s v o t í s í n a d ý r ð; en postuli hans Pétur vottaði hátíðliga fyrir Cornelio (Gb. 10, 43), að allir spámenn gamla testamentisins hafi vitnað, í hvørju tilliti þetta skéð hafi, nefnliga: s v o a l l i r s e m á h a n n t r ý d u f e i n g j u i f y r i r g é f n í n g u s y n d a n n a, þá er audséð að trúarinnar ástæða var hin sama, fyrri sem síðar. Og hvørsu skírt og skoruglíga vitnaði Páll postuli fyrir Gudingum í Antiochíu

(Gb. 13, 38. 39); ad Jesús væri fá fyrir hvorn syndanna fyrirgéfníng feingist, en ecki fyrir Mósis lögmáls hald, en hvör sem á hann trydi, væri réttlátur. Og sama vitnadi Pétur fyrir Gydíngum i Jerúsalem (Gb. 15, 11), ad nýa Testamentisins Gydíngar hefdu þá trú, ad verda sáluhólpnir, fyrir nád drottins Jesú, á sama hátt sem fedur þeirra i gamla Testamentinu; meiníngin er, ad hvoritveggju verdi jafnt, einúngis fyrir hana, frelsadir.

Þetta allt sannar þad, ad sáluhjálpin var öll hin sama, undirstødunni til, í því gamla sem nýa Testamenti. En fyrir utan þetta, er þad alkunnugt, hvörsu Jesús margfaldliga setur trúna — og þad sér í lagi sína persónu sem Messíæ — þann einasta veg til eylífs-lífs. I rædu sinni vid Nicódemum (Joh. 3) telur hann trúna á sig, þann Mannsins Son, er á Krossinum uppfestast ætti, mátann til ad ödlast eylíft líf; og í sama tilliti hljóti menn ad trúa á sig, sem Guds eingétinn Son (Joh. 3, 15. 16). Þad sama vitnadi hann og med mörgum ordum og sterkum sannfærlngum í rædu sinni (Joh. 6) út af því sanna lífsins braudi; og sama vid Mörthu hjá Lazari gröf (Joh. 11,

26). Eins lagdi hann **trúna** til grundvallar sáluhjálparinnar, þegar hann gjørdi sína lærisveina út med christnibodid (Marc. 16, 6.), og þad bædi í játandi og neitandi merkingu. Hvørsu mikla vidleitni brúkar postulinn Páll í sendibréfi sínu til Rómveria, ad fastsetja lærdóm þann: **ad menn réttlátir og sáluhólpnir verdi, einúngis fyrir trúna á Jesúm, en ecki fyrir verkin?** Hvé eptir þad hann í 3 Cap. er búinn ad sýna og sanna: hvørsu allar manneskjur séu fyrir Gudi, af sjálfum sér til, sakfallnar, og ad einginn géti fyrir hlýdni sína vid Guds løgmál, réttlátur ordid, og leida í ljós: **ad menn réttlátir verdi fyrir þá endurlausn, sem skéd sé fyrir Jesúm Christ, og ad hans réttlæti sé einskostar þad, sem fyrir Gudi gildi,** endar hann med þessum mérkiligu ordum: **svo dæmum vér þá svo, ad madurinn verdi réttlátur án løgmálsins verka, fyrir trúna alleina.**

Og aldeilis somu ályktan gjørir hann, í skrifi sínu til þeirra í Galatia (2, 16), seigandi: **vér vitum ad madurinn verdur ecki réttlátur fyrir løgmálsins verk, heldur fyrir trúna á Christ;** og géfur sídan þá áminníngu: **svo látum oss þá trúa á Christ Jesúm, svo vér réttlátir verdum fyrir trúna á Christ,**

en ei fyrir verk lögmálsins, því fyrir verk lögmálsins (edur hlýdnina vid lögmálid), verdur eckert hold réttsferdugt (eingin manneskja fyrir Gudi réttlát)! En ad hér sé þó ecki (eins og sumir hafa látid sér um munn fara), ad eins meint hlýdnin vid þad kyrkjuliga Lögmál, sem Gydíngum út af fyrir sig géfid var, heldur og vid sjálft náttúru-edur sida-lögmálid., sjest vert af pistli Páls til Rómverja, hvar hann í 1ta og 2m Capit. talar um þad lögmál, sem géfid var svovel heidíngjum sem Gydíngum, sem var þad sidar nefnda lögmál, en ei þad fyrra. Og í öllum sínum sendibréfum heldur postulinn fast fram þessum sama lærdómi; einkum er í bréfinu til þeirra Ebreska í mesta máta af trúnni haldid, og sagt: ad án hennar sé hreint ómögüligt Gudi ad þókknast (11, 6); og ad þetta sé einmidt trúin á Jesú fórnar-dauda fyrir heimsins syndir, sem til er meint, sannar þessa sendibréfs 10di Capit. kröptugliga. Vid hinn sama tón kvedur postulinn Pétur í sínum bréfum; í síns fyrra bréfs 1 Cap. 5. seigir hann: ad menn fyrir trúna vardveitist til sáluhjálpar, og ad hennar endalok sé sáluhjálpin. Hann seigir ad Jesús sé sá hyrníngarsteinn, sem Esaj. (28, 16) umspáir, og ad

sá á hann trúi, verdi ecki til skammar (1 Pet. 2, 6); (því ádur hefir hann sagt (1, 18), ad þeir trúndu séu endurkeyptir frá syndunum med hans blódi, hvort hann kallar blód ádreifingarinnar (1, 3), svo sem fyrirmindad med fórnablódi gamla testamentisins, med hverju fólkid var ádreift (2 Mós. 24, 8), til syndafyrirgéfníngar (3 Mós. 16, 20); þar hann seigir og svo, ad Jesús hafi sjálfur offrad syndum vorum á sínum líkama uppá trénu; og ad vér verdum fyrir hans benjar heilbrigdir (1 Pet. 2, 24). Eins hljódandi er framburdur Jóhannis Jesú læríssveins, sem seigir þad sé ecki ad eins leift, heldur bodord Guds, ad vér trúum á nafn hans sonar Jesú Christs (1 Joh. 3, 23), og hann hefir ádur sagt: ad hans blód hreinsi oss af ollum syndum, og ad hann sé forlíkun fyrir vorar, já, allrar veraldar syndir (1 Joh. 1, 7. 2, 2); og sídar seigir hann (5, 13 20), ad þeir hafi eylíft líf, sem trúi á nafn Gudssonar, og ad hann sé vor sannur Gud og eylíft líf. Þó Postulinn Jacob hafi í sínu séndibréfi, heldst þad augnamid, ad sýna monnum hvernig þeirri trú eigi varid ad vera, sem til réttlætis fyrir Gudi dugi, gjörir hann þó berliga ród fyrir henni (nefniliga þegar hún sönn sé), sem fyrstu rót

allra bygda; t. d. þolinmædinnar og stödugl yndisins (1, 3. 4); hann seigir ad bænin sé án trúarinnar ónýt (1, 6); ad þeir sem ríkir séu í trúnnni verdi erfíngjar Guds ríkis (2, 5); en sýnir ofaná, ad sú trú hljóti þá ad vera ávaxtarsöm af gódum verkum, því annars sé hún daud; en hafi hún þaug, þá sé hún eins og trú Abrahams, hvör ed honum var til réttlætis reiknud (2, 20 — 24).

Nú vona eg ad öllum þeim, sem ecki eru því meir fángadir af vantrúar hleypidómi mégn þessum allramikilvægasta og allraglediligasta sannleika, sem vorra trúarbragda hreinsendur — Lútherus og hans stallbrædur — af öllum kröptum vordu, og kéypptust vid ad innleida aptur í Christs kyrkju, þessum nefniliga: ad madurinn réttlætist fyrir Gudi einúngis sökum trúarinnar á Jesú fridþægíngu, en ecki af sínum eigin verkum; þessi lærdómur, seigi eg, væntist, ad af ádur framfærdum röksemdum óyggjanliga sannadur þyki. En af því þad er laga skylda, ad heyra báda máls parta jafnt, svo eckert fylgi sé á hvöriga sídu, þá látum oss skoda nockrar af þeim álitligustu mótpartanna röksemdum, fyrst ad því leiti, er þeir þykjast géta leidt þær móti oss út af skynseminni, og þarnæst út af sjálfri Ritníngunni.

Fyrst seigja þeir það ósannindi sé, sem ei kunni hjá Guði finnast, að láta ecki einn njóta sinna eigin dygða, heldur annarligra. Í þessari mótsøgu er svo blandað málum, að ei tekur tali. Hvør neitar því, að Guð láti trúaða menn njóta dygða þeirra, þó ei sé það eptir skyldu, heldur af náð einni. Hvør seigir heldur það rétt sé, að tileinka einum dygða-hatara forþénustu af annars dygðum. Þetta hvørugt á heima í vorum lærdómi. Eitt eptirdæmi skal upplýsa þetta: Tveir menn eiga að gjalda kóngi sínum, hvør um sig, 10 þúsund punda (Matth. 18, 24). Báðum býðst fullvedja borgunarmaður ef vilja; þó með því skilyrði, að hvør þeirra lúki svo mikið eður litið þeir géti. Nú meguar hvørigur þeirra, með allri sinni atorku að gjalda nema fárra skyldínga virði, uppí sína stóru skuld; og þar á ofan er þetta litla í sjálfu sér mjøg ógildt og illagjørdt (Es. 64, 5); Sá annar skammast sín að frambera það fyrir Kónginn, og þó hann verði, biður hann sáraudmjúkliga forláts á svo litlu og ógildu, en víssar til síns borgunarmanns, sem gjalda vill ecki að eins allt hvað ábrestur skuldina, heldur miklu meira.

Með það er kóngurinn vel ánægdur, og dæmir þann skylduga ei að eins kvittan, heldur heitir að hann uppskéra skuli ídgjøld þess, sem borgunarmaður hans úmfram útlagði; já, lætur hann

iafnvel njóta sinnar frómu vidleitni, í ad lúka þad litla hann megnadi.

Hinn annar skyldugi þvert á móti kjærir sig litt um borgunarmann, þar hann seigir Kóngurinn sé nógu ríkur, hann þurfi eingrar skuldalúkníngar vid; og þad sé ósanngirni, ad hann krefjist meira af sér, enn hann sjálfur géti úti látid, já, þykist jafnvel eiga laun skilin, fyrir atorku sína. Er nú eigi adferd þessara manna hin ólíkasta? Mun ei dramb spilla jafnmikid máli þess eina, sem audmýkt bæta hins annars? Og er þad ei rétt, ad odrum sé refsad, en annar finni nád?

Hér nærst seigja mótmælendur þad rángt sé, ad samlíkja syndum manna móti Gudi vid fjárskuldir til jardneskra lánar-drottna, þar Gud lidi eingan skada vid þær, og því þurfi hann ei borgunar vid. Eingu ad sídur samlíkti þó Jesús sjálfur þeim vid skuldir, bædi í þeirri bæn sem hann oss kénnt hefir og vídar; en þad má líka vel heita svo, sem Gud géfi oss upp skuldir vorar betalíngslaust, þó Christur hans sonur hafi fyrir oss dáid. Gaf hann oss ecki sjálfur soninn og betalínginn í honum? seigir ecki Páll þad berliga (Eph. 2, 8)? En setjum ad samlíking þessi ecki sé svo ejginlig, þá verdur sú þad: ad samjafna syndunum vid landrád og drottins-svik ségn Kóngi sínum; og er þá sok sú ollu þýngri, og gétur vart nockurutíma uppgéfist strafflaust,

sîdst þegar heil sveit eda borgarmúgur er ad henni valdur, sem álíka er fyrir Adams-nidjum. Hér hlýtur hvör einn Köngur, ad taka til síns réttlætis, med álögu straffsins á hina seku, edur heldsu forspracka þeirra, til ad hræda adra sína undirsáta frá sömu óhæfu. Gjöri hann þad ecki, mun stroffunarleysi hans verda orsök nýrrar og nýrrar uppreistar. Já, ad vísu (seigja mótmælendur), þessa þarf jardneskur Köngur vid, sem ei hefir önnur rád ad aptra upphlaups-mönnum, til ad verda óhultur um veldi sitt; en þetta á ei heldur heima hjá Gudi.

Þar til svarast: þó ecki eigi þad heima hjá Gudi á hans sídu, svo sem hann þyrfti þess vid til ad tryggja makt sína, þarf hann þess samt vid, vegna undirsátanna velferdar, um hvörja honum annt er, sem betsta Fødur; en hún hángir af hlýdni þeirra, því hann gétur eingan óhlýdinn farsælan gjördt, medan hann svo er. Nú eru menntirnir fríar verur, sem bædi géta verid hlýdnir og óhlydnir, ef vilja; en ad halda þeim í hlýdni med sífeldum kraptaverkum, er aldeilis móti hans vísdómi og mannanna náttúru, heldur med kroptugum sannfæríngum og tilhvetjandi edur fráhrædandi dæmum; med þessu, en ecki hinu, áorkast sönn hlýdni. Sannfæríngar til hlýdni géfur hann þeim því med ordi sínu; en dæmi, sem bædi gétur merkiliga hvatt til hlýdnis og hrædt frá óhlýdni, med Jesú pínu og dauda.

Í þeim speigli fær madur sjed bædi skjærustu merki hans miskunar, og hrædiligustu hans réttlætis. Miskunar, á þann hátt, sem ádur er sagt: ad hann vann þad til vor ad géfa oss soninn; en réttlætis: ad hann straffadi hann svo hardt vor vegna; sem bædi má fæla oss frá óhlýdni, þar straff vort yrdi þess þýngra, sem Gud meiru til vor kostadi; og líka adra Guds undirsáta, svo sem Einglana og hólpnar sálir, og kannské þúsund fleiri, sem vér ekki vitum; þar þeir sjá, ad Gud aldrei fyrirgéfur syndir strafflaust, svo annadhvort lídi ekki syndarinn sjálfur, einsog þeir follnú Englar, eda þá annar fullvedja borgunarmadur í þeirra stad, sem Jesús vegna vor; en óvíst hvort Gud vildi þeim, ef syndgudu, sem oss, medalgángara géfa (Ebr. 10, 26.

Í þridja máta seigja þessa lærdóms mótstodumenn: ad þad sé óréttvíst, ad leggja ressíngu á saklausa persónu sekra vegna, og þar á ofan hana svo skélfiliga, eins og Jesús lída mátti, sem gjöri Gud ad blód-þyrstum týranna. Med þessari mótsögn fella mótmælendurnir sjálfa sig. Þeir neita ekki, ad Jesús var saklaus; neita ekki ad Jesús leid. Þad er nóg.

Því í hvorju heldst augnamidi sem Jesús leid; þar hann var saklaus — öldúngis saklaus, ekki ad eins vid menn, heldur og fyrir Gudi; já meir enn saklaus, hann sem gjördi allan fódursins

vilja — var það aldeilis ósambodið Guðs heilagleika og réttlæti, að láta hann nockuð, jafnvel hið allra minsta, líða. Svo hvert sem Guð umleið það eður heimtaði, að Jesús liði, það hann leið — ef Jesús leið nauðugur — frelsast ecki Guðs réttlæti. En, nú leið Jesús viljugur (Ps. 40, 8. 9), já, gaf sig sjálfan óbeðinn út til að líða mönnunum til góða (Matth. 20, 28. Gal. 1, 4. Eph. 5, 2); svo er Guðs réttlæti frelsað frá mótstöðumannanna ósblíúgu sakargift. Nú þar hann lét son sinn líða, er víst, hann hefir látið hann líða í einhvörju óendanliga háleitu augnamiði; enda tekur og Ritníngin þar um af öll tvímæli, og sýnir að Guðs réttlæti hafi stærri æru haft af því, að Jesús leið fyrir syndir mannanna, enn þó þeir allir saman hefðu sjálfir fyrir þær liðið (Róm. 5, 15 — 21). Já Jesús sjálfur hafði, eptir manndóminum, af píni sinni og dauða þvílíka æru, að hann öðlast hefir þá tign sem er yfir öllum tignum, svo að fyrir Jesú tign skulu öll kné sig beygja, þeirra sem á himni, jörðu og undir jörðunni eru, seigir postulinn Páll (Phil. 2, 9. 10). Þessar eru nú þær helstu átillur, þeirra, út af skynseminni, sem réttlæti trúarinnar á Jesú fórnardauða vefeingja vilja, og meigum vér oss til huggunar sjá hvörsu þær eru gaunguláar

vesi veikari, og falla um koll vid minsta andblæ frá sannleikans ríki. Lofadur veri Gud!

Látum oss þá af öllu hjarta þacka Gudi fyrir sína nád i Christo!

Blessad veri nafn þitt og nád, miskunsemdanna eylísi Fadir, sem lagt hefir svo fastan grundvöll til vorrar andligu velferdar í syni þínum Jesú Christo, ad öll helvítis port megna honum ecki ad róta né raska. Já, þú hefir í þinum syni veitt oss lángt stærri herligheit, enn vér mistum í Adam. Vér mistum mannligt réttlæti, þú gafst oss guddómligt. Vér töpudum sakleysi, en hrepptum forþénustu. Því þó vér stadid hefdum í standi sakleysisins, gátum vér ei giördt betur enn oss bodid var og skyldan krafdi; vér áttum eckert skilid fram yfir þad sem vér notid hefdum í vors lífs vidhaldi; en fyrir tileinkun þíns sonar Jesú réttlætis, erum vér ecki ad eins fríir frá straffi synda vorra, heldur tökum hlut í hans forþénustu, svo þú rétt sem álítur þig í skuld vid oss fyrir hans sakir; já, í skuld um þvílíka sælu, sem ad líkindum lángt yfirgeingur þá, sem vér — þó syndlausir verid hefdum — mundum nockurntíma hafa kunnad ad vænta edur ödlast. O, gef oss þá, Fadir, trú þá, sem ad sér tekid getur þvílíkt réttlæti; þá trú, sem er verk þíns anda í vorri sálu; þá trú, sem veroldina sigrar; þá trú, hvorrar undirstada er vonin og hvorrar

líf er kjærleikurinn; já þá trú, sam ei þrotni heldur þróist, uns hún verdur ad skodun á Landi dýrdarinnar. Unn oss þessa fyrir Jesúm Christ, í krapti heilags Anda! Amen!